811
Rím

# Rímur

af

# Núma kóngi Pompilssyni,

qvednar af

## Sigurdi Breidfjørd.

— ∸ — O! géf þú gódann mér edur alls aungvann Hródur!
*Pope.*




Videyar Klaustri, 1835.
Prentadar á Forlag Sekret. O. M. Stephensens,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

## Tileignad

Veledla Herra Kaupmanni

# A. O. Thorlacius,

á Stikkishólmi.

---

Lítid taka af litlu má,
lofadi Herra! Vinur kjæri!
þigg ad eg audmjúkt þessa Skrá,
í þínar hendur géfna færi,
þakklátan sýna eg þánka vil
Þér, sem varst mér svo ør ad gjædum,
en hefi ekki annad til
enn offra Þér þessum fáu Qvædum.

Høfundurinn.

# Lítill Formáli.

Á seinna og upplýstara tímabili hefur Rimnasmidi ockar Íslendinga mætt þeirri óheppni, ad vera litils métid af fródum mönnum, sem þó hafa haft sanna skynsemi rétt ad meta svo vel framandi sem innlend Skálda=mal. Máske orsøkin til þessa sé sú, ad Rimna skáldin ecki hafi, med upplýsingu þjódar vorrar tekid tilbærilegum og eptirvæntum framförum i ment sinni, svo vel i því ad velja snotur efni til qvæda sinna, sem ad hreinsa þau frá vanmælum og ófimlega brúkudum Edduglósum, sem vér höfum um of tekid i arf eptir midaldirnar. Eg meina, ad Edda midur eigi ad þéna Skáldinu til léttirs, en til ad prýda hér og hvar verk hans, því þessa léttirs á hann ecki vid ad þurfa, ef honum er ecki ofgéfid þad nafn Skáld ad heita; ecki heldur er þad nein málbót fyrir oss Íslendinga, þó nockur af nýrri Dana Skáldum taki til ad brúka Eddu vora afbakada og med allri ófimni vidast hvar því fyrst verdur hún líklega aldrei því máli eiginleg, enda er hins ad vænta, ad vér, sem frumqvødlar og vardhalds einglar Eddu nú'anna, og hinnar edalbornu Norrænu túngu verdum Dønum fremri i þessari ment.

Hvad efni Íslendskra Rimna snertir, mætti mér vid þetta tækifæri vera leyst ad ávikja: ad eg meina nú á vorri

ekki óþarfligt, heldur ómissandi hér til að velja lognar Tröllasögur svo afskræmilegar, að eingin heilbrigð skynsemi fái þar af trúað einu orði; svo sem þær, í hverjum menn dauðir fyrir hundruðum ára mæla og jafnvel yrkja í haugi sínum og fljúgast á til þrautar við aðkomumenn; þegar töframenn verða, þegar er vilja, að ormum, hvölum, drekum og öðrum þvílíkum býsnum; þegar Dvergar og Álfar gera allskonar teikn og stórmerki, bera vindana í skjóðum sínum og slá þeim lausum, nær eð vilja, koma strax þángað sem nauðir verða, og sjá í speiglum sínum allt hvað skéður heimsendanna á milli.

Að slíkar frásögur séu nú ekki leingur frambærilegar upplýstri og skynsamri þjóð vorri, vona eg flestir vilji með mér sanna, sem bera skyn á rétt að meta; og þar þvílíkar bæði opt spilla góðum siðum, hindra aðra betri fræði og trylla tíðum skapferði ófróðra únglinga, ættu þær að gjörast útlægar úr bygðarlögum Íslendinga.

Þeir svo kölluðu hortittir og vanmæli, eins og leiðinlegar og ofbrúkaðar Eddukenningar, fæðast líklega opt með þeim hætti: að Skáldið velur sér klíðaðri bragarhátt, en kraptar hans eður dugrí frásögu leyfa honum þrautalaust að framfleytja; þó vil eg ekki hér með telja ræka Rímna bragi ockar, sem eru innfæddra Skálda vorra frumsmíði, og mega oss því vel sóma þegar Skáldið sníður sér þar af stackinn eptir vexti. Að Skáldið þrælbindi ljóð sín við bókstafi sögunnar, þykir eingin nauðsyn til reka, því þá er einfætt að lesa sjálfa hana, og hefur hann illa varið ómaki sínu ef eckért nema samhendur hans skilja sögnna frá rímburlausu máli; hitt mætti kannské nægja að framsetja höfuð innihald sögunnar og prýða svo eptir efnum og mætti Rímurnar með sjálfsmíðuðum samlíkingum, snillilegum Eddu greinum og snotrum þaunkum yfir tilburði sögunnar.

Þau morgu Dvergaskip, sem fljóta og fjara við upphaf og endir hverrar Rímu, fara nú að verða slitin og vansær til frekari áníðslu, enda þarf þá ecki að skrifa Rímu skipti milli þessara, þegar Skáldið í ljóðum seigir lesara sínum í hvört sinn til, þegar ein Ríma endar og hin byrjar.

Eg hefi í Rímna Rímum þessum viljað leitast við að umflýa það sem mér helst hefur þókt til lýta hingað til, svo vel á mínum eigin, sem annara Rímum; Lesarinn og eptirtíðin eiga frjálst að dæma um hvört mér hér í nockru hafi tekist betur en fordum; þó vona eg, að efnið sé þannig valið, að ecki þursi að verða hyggnum mönnum að athlátri.

Að endingu vil eg hafa beðið góðskáld Íslands og alla hina upplýstari lesara mína ecki að misvirða, þó eg hér hafi framvarpað meiningu minni um þetta efni, í sáum greinum, sem eg vildi óska gæti orðið skjeldur fyrir brjósti Rímna þessara, sem nú ecki frá mér hafa fremur neinnar hjálpar að vænta.

Ydar auðmjúkur

S. Breidfjørð.



## Fyrsta Ríma.

Líd þú nidur um ljósa-haf, litud hvíta skrúdi, kjærust Idun! oss þig gaf, Alfadir ad Brúdi.

2. Módir stefja minna hlý, mjúklynd, føgur sýnum, lát mig vefjast ínnaní, arma-løgum þínum.

3. Andleg gétin ockar kyns, afqvæmin sem fóstrum, lát þú eta ódáins-epli af þínum brjóstum.

4. Fyrst þú átt þau eplin há, sem ellibelgnum fleygja, æi! láttu ecki þá, úngana mína deya.

5. Skuld óborna mjaka má, mér ad heljar rockrum, en ei vil eg Nornin nídist á, nidjunum, Idun! ockrum.

6. Kom nú, háa heillin mín! hugann sjúka ad styrkja, himneskt ljá mér hljódin þín, hætti mjúka ad yrkja.

7. Fyltu blessud brjóstid nú, birtu hugar-sjónar, sérhvært vessid signir þú, sem vor harpa tónar.

8. Víni orum, Idun! þá, sem edlid prýdir spaka, bera þorum børnin smá, og bidja hann vid ad taka.

9. Þótt einmana þrokum hér, þeim hjá Græn= lands sonum, ljóðfuglana látum vér, leika í átt= høgonum.

10. Vega skil mín óðfleyg ønd, eingin þarf að géra, þegar eg vil, er hægt um hønd, heima á Fróni að vera.

11. Fuglinn drjúgum frái sá, faldi skýa und= ir, suður fljúga á nú á, Italíu grundir.

12. Og svo þaðan óhikað, Íslands heim til bragna, segja hvað í hvørjum stað, helst til beri sagna.

13. Vinur hái Velborinn, á voldugum stóli sitja, hrektu ei frá þér fuglinn minn, sem fyrir þig vill gala.

---

14. Albygð vóru — um það skrár, eru í vorum høndum — herøð stór á øldum ár, í Italíu løndum.

15. Þar sem liggja løndin tóm, og Latsíu grundir skína, fóru að byggja fyrstir Róm, á fjallinu Palatína.

16. Rómulur og Remur tveir, sem ritin bræður géra, Martis burir mundu þeir, mágar Prócass vera.

17. Borgum øllum Róm í rún, reiknast stærri af seggjum; á sjø fjøllum háum hún, til himins lyptir veggjum.

18. Borgin ádur búin var, blóma og heid-
ur firdur, eptir rádum Rómular, Remur
beydi myrdur.

19. Hinn, sem efna blódugt bad, bródur
réd og pínu, hann lét nefna háan stad, heiti
eptir sínu.

20. Borgar meingi í oruſtum ært, einatt
verid hefur, þeirra einginn kynid kært, qvenna
armi vefur.

21. Þad var ſkadi, í þeſsum ſtad, því
fanſt eingin kona! meinid þid hvad, ad þeſsir
þad, þoli leingi ſvona?

22. Nú ſkal ödru fólki frá, fráſøgn géra
nýa: Latsíu jödrum liggur hjá, landid Sa-
binía.

23. Köngur Taſi holdum hjá, hefur
ſtjórnar gætur, hlífa þraſi hvörgi ſá, hrøck-
vaſt fyrir lætur.

24. Hann nam varaſt vanda og ſtríd, á
velli fyrſt uppſkéra, ad forſvara land og lýd,
lét ſér ant um vera;

25. Dygdir metur heidur hann, heillum
gæddur ſínum; þjódin betur eingin ann,
áſtum köngi ſínum.

26. Hilmi jafn ad heidri er, hollur bród-
ur nidur, Pompíls nafn ſá budli ber, bar-
daga reyndur vidur.

27. Hernum ſtýrir hann og ver, haudur,

dýrum brandi, fjandmenn rýrir fyrir sér, svo fridurinn býr í landi.

28. Atti dýa roduls rún, reigin tíginn sjóli, Pompilía heitir hún, hjúpud orma bóli.

29. Ástin hlý vard af því sár, ángrast bædi vidur, lidin tíu eru ár, ei þeim fædist nidur.

30. Gøfgudu marga Gudi þá, gumnar fræddir midur, til heilla og bjarga hétu á, hvørn þar átti vidur.

31. Trúnad manna mestan bar, (því markir vóru í standi), Sádgydjan hún Seres þar, í Sabiníu landi.

32. Hennar stendur hofid skreytt, þar hefjast skógar grænir, eikur hendur hafa breidt, húsins yfir mænir.

33. Mikill Presta þorri þar, þjónkun gydju veitir, tignar mestur talinn var, Tullur sá sem heitir.

34. Pompilía fundid fær, frømud Presta og bidur, fornir drýgja fyrir mær, svo frjófgist henni qvidur.

35. Skrúda hjúpast hann vid þad, hér til fús ad stydja, bædi krjúpa í einhug ad, altarinu og bidja.

36. Þannig Frúin: „heiløg há, himnesk

díſin beſta, ſjá þú nú mér aumur á, allt mig þikir breſta.

37. Meðan eg ei fyrir mannval beſt, móðir ſæ að vera, á øllu ſeigin øðru breſt, eg vil góðu bera.

38. Ef miſkun hneigir mér og hal, møg ſvo géta kunni, þó eg deyi eg þacka ſkal, þér í fæðíngunni.

39. Sonur ef þá audnaſt mér, eru koſtir góðir, hann eg gef og helga þér, honum vert þú móðir!"

40. Þannig bað hún þrátt og títt, þeſsi greidiſt vandi, eptir það ſig ſljóðið frítt, ſinnur barnshafandi.

41. Gleðin blíða hjørtun hd, hjóna faðmi veſur, tekur að líða tímann á, til þeſs fæðíng krefur.

42. Nú er búin borgin Róm; boð til Sabinía, beraſt nú og bréſin fróm, að bjóða í ſtaðinn nýa.

43. Þar á að vera helgihald, og hátíð Guða meſta, hvør ſem ber til vilja og vald, velkominn ſé geſta.

44. Margir girnaſt þetta þá, þángað flockar renna, borgar ſirna bygging ſjá, bæði manna og qvenna.

45. Pompíll fylgir þángað þjóð; þakinn

flocki meya, líka bylgju blóma rjód, barnshafandi freya.

46. Inn í stadinn ýta hvur, otar hvøtum fæti, lætur rada Rómulur, reckum þá í sæti.

47. Tignar rædur tróni sá, til hans augun voga, lofdúngs klædum logudu á, ljósin-Elivoga.

48. Þegar hann setst í sætid há, svipadi þadan ótti, vartar mestur manna sá, mildíng vera þótti.

49. Hann ólútur leit um her, á lægri skør er sitnr, dymt og þrútid andlit er, augun snør og bitur.

50. Veltir þannig fjalli frá, fálkinn sjónar vølum, þar sem fann hann fugla smá, fløgta í grónum dølum.

51. Géfur bendíng hilmir hár; hana Rómar vidur, taka í hendur sverdin sár, og sýngja skjóma-qvidur.

52. Byrja slag og þrætur þá, præls ad háttum vestum, konur draga og dætur frá, djarfir sáttum géstum.

53. Sabiníngar sjá þad rán, svipar brúnum nidur, viknir híngad vopna án, vóru og búnir midur.

54. Taka fángbrøgd fjøndum á, fyrir líf

ei vakta, en sverdin gánga gégnum þá, guma hlífar nakta.

55. Grátur qvenna óhljód øll, yfirgnæfir hinna, þeirra menn òg fedur føll, fá og æfi linna.

56. Rómar eira aungvu meir, undir fá ad svída, fljódin keyra í felur þeir, en fella þá sem strída.

57. Bani því er búinn hvеim, sem brúda þvíngar skadinn, sumir flýa særdir heim, svívirdíngar stadinn.

58. Pompíl segja førum frá, fyrst þar harnar ýma, qvinnu eigin nam ad ná, þar Rídíngarnir glíma.

59. Kémpan hrund á handlegg ber, húsid slúid gétur, eptir skundar honum her, heppnast nú ei betur.

60. Honum rísa frúna frá, fast ad herda leidir, af einum þrífur ødlíng þá, eggjad sverd og reidir.

61. Leiptradi bláa Blinds = eldíng, budla þá í høndum, nidur sáir hann í hríng, hlífa gráum fjendum.

62. Sár af boga flugum fær, fylkir og þó stendur, en hvør sem vogar honum nær, Hárs er loga brendur.

63. Sókn uppgéfa þrælar því, þeingill fljód án skada, sína vefur innan í, arma blédlitada.

64. Lángt frá þannig ljónsinnan, lítur af gøtu breidri, veidimanninn vopnadan, voga ad sínu hreidri.

65. Hennar reidin svellur sár, svo vill hreysti reyna, øskrar, freydir, hristir hár, hrømmum kreistir steina.

66. Ecki hlítir hlaupi mann, hún er frá sem tundur, rífur, slítur, hremmir hann, hjartad tá-ir sundur.

67. Sína únga síðan móð, sig í kríngum vefur, hennar túnga, er hylur blód, hjúkrun þessum géfur.

68. Þar sem blódug bálaðist, í brjósti heipt-in strída, á nú módur ástin vist, innilega blída.

69. Pompíll símur leid um lód, med ljúfa byrdi hvatar, af hans limum lekur blód, litud verdur gata.

70. Hosi gétur helgu nád, há-altarid vid-ur, nidursetur sørfa lád, og Seres vernda bidur.

71. Frá sér unda líka ljá, lagdi sverda Haudur, þadan skundar fetin fá, og fellur nidur daudur.

72. Høfud-Prestur Tullur tród, til og finnur brúdi, þar vid mestu harma hljód, hjartad sorgin gnúdi.

73. Hørmúng alla ieinu bar, eingar bjargir stína, ysirfalla fædíngar-feiknir hana og pína.

74. Tullur vann sitt lið að ljá; líks með merkjum følum, fæddi svannin son, og þá, sofnaði burt frá qvølum.

75. Klerkur minnast vitur vann, víf hvørs beðið hefur, Gyðju sinni hollri hann, helgar svein og géfur.

76. Ber til sinna húsa heim, hann að væru rúmi, konur sinna sveini þeim, sá er heitinn Rúmi.

77. Bál með prýði búið var, báðum hjóna náum, fylgði lýður landsins þar, losðúng Tasa háum.

78. Allur herinn harma bar, hrópuðu qvinnur línar, en losðúng sver við logann þar, látins hefna vinar.

79. Pompíls brennu firðar frá, feta senn í staðinn, sækja menn til sjóla þá, svíður qvenna skaðinn.

80. Oðlíng sjálfur oddvitinn, er og fylkíng setur, hjørtun skjálfa harmþrútin, heiptin ferða hvetur.

81. Þar sem stofnast ferð ásjáð, flesta kyn-jar sveina: loptið klofnar, kiknar láð, klettar stynja og veina;

82. Runnar sjúka, falla tré, í felur grøsin skríða, fljótin strjúka úr farvegje, flestar sképn-ur qvíða.

83. Allt hvað lifir undan rak, ótta griðar

vedur, þar sem yfir ekru bak, ógnfylkíngin tredur.

84. Fram svo nádi æda old, opt þó mæti størkum, uns þeir ráda ad reisa tjøld, á Rómaborgar mørkum.

# Önnur Ríma.



Enn þá hafdi ei heimur forn, hulin nád ad finna, helblá eitureldakorn, í idrum jardarinnar.

2. Þig, sem setur borg og bý, í bál, í andartogi, hvør kom med þig heiminn í, heljardýkis logi?

3. Þú sem dýrsist þreita raust, þrumy saungin vidur, og alla hluti eirdarlaust, í øsku fellir nidur.

4. Þó í þér queiki huglaus hønd, hnígur kémpan góda; og þú eidileggur lønd, í loganum Djøfulóda.

5. Hvar sem þér er otad á, ertu fús ad granda, fyrir þér ecki fjøllin blá, í fridi meiga standa.

6. Med þér fylgir mord og svik, mund ef stýrir hvinna, því þú ert ecki augnablik, ólukuna ad vinna.

7. Hermenn, borgir, hús og skip, á hafnar mjúkum dýnum, verdur allt í einum svip, eldur í kjapti þínum.

8. Med þér flykkjast myrkur ljót, og myndir versta drauga, þegar þitt dregur sindur-fót, sjónar kríngum bauga.

9. Hati þig sérhvör hugmynd qvik, á himni, sjó og landi, aldir, daga, og augnablik, eisa full af grandi.

10. Hvörki um þig eg þarf né vil, þetta qvædi leingja, þú varst enn þá ecki til, í orustum minna dreingja.

11. Þegar dagsins bláa brá, breytir hættum tíma, sólin stígur sjái frá, sökk-ur þá hún Gríma.

12. Kérlíng Hildur kallar þá, kappa ad rísa á fætur, á haukastødum blísin blá, Bøl-verks qveikja lætur.

13. Hrafnar sig um sóknar leir, saman í hópa kalla, raupa af, ad þecki þeir, þá sem eiga ad falla.

14. Ernir koma og eiga þíng, augna hvass-ir hlacka, kreppa allar klær í hríng, og kríngja gogginn blacka.

15. Tíma og stadi vargur veit, veidin kitlar góma. En Tasi kóngur sinni sveit, sigar ad hlidum Róma.

16. Fólum þeim er fyr í høll, freyum rændu veiga, býdur hann út á breidan vøll, brúdi Hédins eiga.

17. Rómúl brennir reidin heit, rædst til vopna fimur, kallar hann hátt á sína sveit, sala hvelfíng glymur.

18. Fram á Rómar vada vøll, víga sig til búa, vopn á lopti eru øll, eggjar ad holdi snúa.

19. Sabíníngar hefja um hjall, hildar-leik med ergi, rydjast eins og fossa fall, fram af hvøssu bergi.

20. Blódid nidur í flóa flaut, fyrir sára nødrum, hníga menn í heljar skaut, hvør á fætur ødrum.

21. Sókti leingi sverda hret, sveit í hlífum grám, undan eingin fetar fet, fylliſt vøllur náum.

22. Svona lætur reisug Rán, reidar dæt-ur herja, á jardar fætur fridar án, og fjalla rætur berja;

23. Hún vill rydja ríkis þraung, og ráda heimi øllum, hennar idja er harla ſtraung, en hart er ad berja á fjøllum;

24. Vekur hún drauga djúpi frá, dragast haugum saman, þeir sem lauga bjørgin blá, og blaka þaug í framan.

25. Ekki þokast þó úr stad, þau né hrædast voda, Ránar hroka hædast ad, og hrista af sér boda.

26. Þannig herinn beggja berst, Blinds í helliskúrum, stendur hver þar fyrir ferst, föstum líkur múrum.

27. Heila fálma húsum ad, höggvopn, fíkur, genja, brotna hjálma bord vid þad, brandar á hlífum grenja.

28. En þar sem stendur hildur há, heit í breyra idum, sjá menn qvendi í flockum frá, fara borgar hlidum.

29. Þær sem rændar vóru vid, veitslu spjöllin Róma, sjá nú bænda sinna lid, sundrast fyrir skjóma.

30. Æda og hljóda út á völl, ákéfd drýgir tregi, hrædast blódug bodaföll, og branda gnýinn eigi.

31. Flakir hár, en flóa tár, fadmar sundur sleyngjast, gégnum sár og unda ár, inn í fylkíng þreyngjast.

32. Æpa, kalla, og eggja klid, yfirgnæfa í hljódum, höndur fallast hinum vid, Hárs er kynda glódum.

33. Þannig hljómar þeirra mál: „þér „menn, brædur, fedur! slöckvid Óma bráð„heitt bál, blóds tilfinníng medur!

34. „Þér sem stridid vegna vor, vitid þid „hvad nú gérid? eitrud svída eggja spor, öck„ar líf þid skérid!

35. „Vorir menn, sem festu fljód, fedur „ad velli leggja, og brædur; enn vér berum „jód, af blódi hvurutveggja.

36. „Hví svo blódug brjósta mein, búa „ockur viljid, beggja þjód er ordin ein, at„hugid þad og skiljid.

37. „En ef þyrstir ýdur í blód, og á þad „svo ad vera, ockur fyrst skal eggin rjód, all„ar sundur skéra.

38. „Yfir vadid ockar ná, og þau jód sem „leynast, svo þar hladid ofan á, yckur daudum „seinast."

39. Hernum fallast hendur þá, hremsan stadar nemur; sverdid hallast heggi frá, hik á spjótin kémur.

40. Fljódin herda fremur á; fadm ad monnum breida, locka sverdin ljót þeim frá, og lauma þeim til skeida.

41. Kóngar bádir koma á tal, kost þann fridar géra: þjód í nádum þeirra skal, þadan af samein vera.

42. Þeir skulu jafnir tignar tveir, á tróni einum ríkja, hers med safni sáttir þeir, svo til borgar víkja.

43. Tasi geymir landsins log, til líknar snaudum kémur; situr heima mildur mjog, mál og deilur semur.

44. Stjórnar hyggju sinnir sá, síðum eigi breytir. Dóttur tiggi tíginn á, Tasía meyin heitir.

45. Ver að sönnu frúin fríð, en fegurst þó að síðum, þocka mönnum bauð svo blíð, sem brosi sól að viðum.

46. Rómúls undra iðin hönd, eirði ei fyrðar hægum, sig hann undir lagði lönd, og lifði í sverða slögum.

47. Dögling líka dóttur á, um drós vér tölum síðar, henni víkja hrafnar frá Hárs, og flögta víðar.

48. Nú skal inna nockuð frá, Núma: sveinninn besti, fæðist sinni ættjörð á, upp með Tulli Presti.

49. Sínum hlýðinn vini var, vitsku og dygðir nemur, andlits prýði einginn bar, úngum manni fremur.

50. Farfinn rjóði og húðin hrein, hægt í fóðmum láu, hjartað góða gégnum skein, glerin hvarma bláu,

51. Svo er væni viður sá, er vökvar qvikur beckur, dala grænum grundum á, gróður megnið dreckur.

52. Fagurlitur blómstur ber, beinn í skrúða sléttum, öllum þytum vinda ver, valið skjól af klettum.

53. Rætur festar safna sér, sást af lækjar iðum, kosta bestur af því er, og øllum fegri viðum.

54. Fram svo líða átján ár, aðalblóminn sveina, varð fulltíða, vartar hár, vænn að sjá og reyna.

55. Í hofinu beimur þjónar þar, þá að offur størfum, Guðdóm þeim hann géfinn var, gæddur mentum þørfum.

56. Fóstra sínum fylgdi hann, fús á siði spaka, því hann átti eptir þann, embættið að taka.

57. Það var hátíð einni á, úngur sveinn og Prestur, altarinu halda hjá, helgra bæna lestur.

58. Húsið fylla heiløg ský, halir trúar gladdir, hvelfíngunni heyra í, himinbúa raddir.

59. Pessi orð af helgum hljóm, hlustir skilja meiga: „Fari Númi framm í Róm, fólkið skal hann eiga.

60. Møgli ekki manna géð, móti Seres vilja, ástvin sínum er hún með, ei mun við hann skilja."

61. Hvor á annan horfir nú, hissa báðir verða, loksins talar Tullur: þú, til mátt búast ferða.

62. Þó að ockur, son minn! sárt, sambúð

þiki að lúka, himins boðið heyrum klárt, hlýðni krefur mjúka.

63. Følna Núma fagrar brár, folskvast sjónar eldur, fljóta þau hin þýðu tár, sem þacklát ástin geldur.

64. Sveininn klerkur sér við fáng, síðan þaðan teymir, ofan í læstan undirgáng, að sem lykla geymir.

65. Setur hann fram tvø silfur-kér, segir: þú mátt finna, foreldra beggja aska er, í hér hulin þinna.

66. Þeirra kærar moldir mátt, minnast bljúgur viður, þau frá sælu sølum hátt, sjá til ockar niður.

67. Roðnar Númi og þeigir þá, þánkar túngu fjøtra, ljúfum rennir augum á, í-lát moldar tøtra.

68. Ástar faðmar hjartað hlý, hønd-in mjúka og sára, sjónar steinar synda í, sæt-um lækjum tára.

69. Tullur rétti Sveini sverð, segir túngan fróma: láttu þetta fylgja ferð, faðir þinn átti skjóma.

70. Aldrei lét hann heiptar hønd, hvess-ings eggjar brýna, með því varði' hann lífið, lønd, og lofsins móður þína.

71. Hafðu, vinur! sama sið, sverð þá reiðir

höndum, Gudina þá eg géfa bid, ad grand þad vinni fjöndum.

72. Hér er líka lockur klár, leingi geymdan hefi, þad er módur þinnar hár, þigdu nú eg géfi.

73. Rúmi hirdir hár og geir, hæglyndis med tárum, sídan gánga þadan þeir, þrútnir ástar sárum.

74. Burtu Rúmi búast hlaut, bestu fær hann týgin, fylgir honum framm á braut, fóstri ára hníginn.

75. Þar sem skilja skulu á, skógar grænum haga, höfud = prestur hollur þá, hóf svo rædu laga.

76. "Hér þó ockar skilji skeid, skal mig sorg ei buga, en framm á þína leingri leid, léttum fleyti' eg huga.

77. Því eg hrædist þinn úngdóm, þörf er fyrirhyggja, þegar þú kémur þar í Róm, þúsund snörur liggja.

78. Á þínum aldri eingan vin, áttu er treysta megir, þeirra ást er yfirskyn, sem aldur og reynslan fleygir.

79. Wellyst holds er vodalig, vid hvört tækifæri, vill hún fadmi vefja þig, en varastu hana, kæri!

80. Þann sig hennar vélum ver, virdi eg

kémpu fríða, viðqvæmt hjarta veikast er, en verður þó að stríða!

81. Ljáirðu henni lausan taum, þó lítið virðast megi, freistíngamia fyrir straum, færðu stadist þeigi;

82. Sofnar þú í gøldum glaum, en glatar dygða vegi, þó er tíðin náða naum, á næsta máské degi.

83. Viður sálar veinin aum, vaknar beiskur tregi, værðarlaus í vøku og draum, verður svæfður eigi.

84. Því við sérhvørt fet þú fer, fram á lífsins skeiði, hygðu að hvørt það hæfir þér, en hata dramb og reiði.

85. Heiðraðu þeirra háu stétt, (fyrst heimsins það er siður) en láttu hinna lægri rétt, líða þar ei viður.

86. Vitsku og dygð að vinum þér, veldu systur báðar, leitaðu hvað sem forma fer, fyrst til þeirra ráða.

87. Hamíngjan býr í hjarta manns, høpp eru ytri gæði; dygðin ein má huga hans, hvíla, og géfa næði.

88. Viðqvæmnin er vanda kind, veik og qvik sem skarið, veldur bæði sælu og synd, svo sem með er farið.

89. Lán og tjón—já líf og morð, líðug

fædir túnga, því er vert ad vanda ord, og venja hana únga.

90. Heidradu þann sem hærum á, hrósar døgum sínum, vertu einkum vísum hjá, vandur ad ordum þínum.

91. Vondum solli flýdu frá, og fordast þá sem reidast, elskadu góda, en aumka þá, afvega sem leidast.

92. Heyrdu snaudra harma raust, hamladu sjúkra pínum, vertu øllum aumum traust eptir kreptum þínum.

93. Ræktu þessi rádin fá! ræktu dygdir æfa, svo þó eg þér fari frá, fylgi þér heiløg gæfa.

94. Hér er loksins lítid bréf, lesa máttu skjalid, Tasa kóngi á hendur hef, hérmed eg þig falid.

95. Veri' á þínum vegum nád, vermi brjóstid fridur, Túllur eptir ord svo tjád, ástvin skilur vidur.

96. Númi finnur sára sút, sem søknud fylgir barna, breidir leingi arma út, eptir þeim burt farna.

97. Sídan upp á hvítan hest, hladinn gódum týgjum, halur næsta hljódur setst, og hvatar á gøtum nýum.

98. Fákurinn rann sem fyki ský, fyrir hvøss-

um vindi, átu hvørjar adra því, eikurnar med skyndi.

99. Allt á ferd og flugi var, fjøllin hrærd-ust stóru, hólar, borgir, hædirnar, á hlaupi allar vóru.

100. Lidu upp úr lopti blá, landa sjónir hinar, en fósturjørdin faldist þá, fyrir augum vinar.

## Þridja Ríma.

Módur-jørd, hvar madur fædist, mun hún eigi flestum kær? Þar sem ljósid lífs glædist, og lítil skopun þroska nær.

2. Í fleiri lønd þó feingi dreingir, forlaganna vadid sjó, hugurinn þángad þreyngist leingi, er þeirra føgur æskan bjó.

3. Mundi' eg eigi minnast hinna, módurjard-ar tinda há, og kærra heim til kynna minna, komast hugar flugi á?

4. Jú, eg minnist, fóstra forna! á fjøllin keiku, sem þú ler, í kjøltu þinni qvøld og morgna, qvikur leikur muni sér.

5. Um þína prýdi ad þeinkja og tala, þad er tídast gledin mín, í høgum fríðu hlýrra dala, hjørd um skrídur brjóstin þín.

6. Smala hlýdinn hjardar fjøldinn, heim ad líd-

ur steckonum, þar eg síð á sumar=quøldin, sat í vídir=breckonum.

7. Fóstra! já mér féll í lyndi, fadmi á ad hvílast þín, bygdi eg þá med æsku yndi, ofur smáu húsin n ín.

8. Þau vóru full af audi ærum, í eckert lánga þurfti meir, allskyns gull og faung úr fjørum, fluttum þángad b=ædur tveir.

9. Tún=um vær, þar grundin gréri, grasa blóm=in lita=fír, þau í skæru skélja kérin, skadlaus komu, en voru dýr.

10. Skipta sínum skérsi mátti, skyldi þeigi muuur á, þúfur sínar sérhvør átti, sem ad eyar voru þá.

11. Vid med yndi fridar festa, fénadar þá ost skortur var, vorum kindur, kýr og hestar, ad kroppa strá um eyarnar.

12. Firtir naud vid faungin undum, flest á gæti vard ad bót, þó af audi ockar stundum, urdu þrætu malin ljót.

13. Einvíg þreyttum huga herdir, handa neyttum máttar þá, og med beittu sviga=sverdi, sári veittum eigi smá.

14. Hér á landi eg þó uni, øllum þrautum lángt er frá, en sárþreyandi mænir muni, módur skautid hvíta á.



15. Vegurinn líður, vér oss flýtum, (við mig síður fyrtist þér), Númi ríður á hesti hvítum, hann var að bíða eptir mér.

16. En af því Nótt hún elti hestinn, undan hann ei komast má, blundur hljótt þeim góða gésti, gisting vann að bjóða þá.

17. Þar sem streymir lækur létt um lund, hinn móði sofna fer; hvað hann dreymir hér í fréttum, hef eg að bjóða, vinur, þér.

18. Vagn af tveimur drekum dreginn, drauma sjónir fyrir brá; situr í þeim sem sól nýþvegin, Seres dísin tignar-há.

19. Höfði yfir hans er sefur, himinvagninn nemur stað, skýin bifast, gyðjan géfur gætur að hal og þannig qvað:

20. „Þér eg ann og yfir vaki, allar stundir, sveinninn kær! að ei manninn meinin saki, meðan grund á dvalið fær.

21. Hvað umbiður, vil eg veita, velja máttu strax um það,“ þóktist liðugt bænum beita, bauga Týr og þannig qvað.

22. Vísdóm mér í hjartað háan, heilög móðir! géfðu þá, Túllur sver, að sá sem á hann, sérhvørn góða skuli fá.

23. Númi hverfur allt í einu, æðstu sala guða til, og Minervu himin-hreinu, heyrir tala vísdóms skil.

24. Helst á því hann hefur vilja, hana sjá, ef mætti þá, en gyltu skýin, guddóm hylja, gégnum má ei angad ná.

25. Heyrnar kraptar hans ei þoldu, helgar raddir leingi; því nú er hann aptur nidri á foldu, nockrum skuddur skógi í.

26. Vasin líni vatna freya, vinleg situr stóli á, høfudid sýnist hýrleg beygja, hans ad vitur brjósti þá.

27. Hún í yndi innvefjandi allar myndir hugarins var, hjartad bindur hins undrandi hjávist líndar-gydjunnar.

28. Númi frétti um freyu heiti, frá sér því hann numinn var, umgjørd kletta andsvør veitir: Egería, lætur þar.

29. Númi vaknar, aleinn er hann, og þar lá í runnonum, æ hann saknar, eckért sér hann, eptir af háu Gydjúnum.

30. Drauminn grundar dreingur fridur dagsins fróm hann leidir hønd, á fætur skunda ser og ridur, fram í Róma kémur lønd.

31. Hljótt er allt í audu landi, úngbørn smá, og menn í kør, eiga kalt í aumu standi, eckjur þrá sín mistu kjør.

32. Ei er hreinum hjørdum settur hagi; firdur bléma sá, á akra reinum arfi sprettur, einginn hirdir kornin smá.

33. Harma klædi höfud byrgja, heyrast qvædin sorga þrenn, fedur og mædur syni syrgja, systur brædur og konur menn.

34. Eckjan qveinar, ángur vefur, augu valla sær hún þur, soninn eina hennar hefur, í herinn kallad Rómúlur.

35. Þannig stríðin þjaka löndum: þótt ad prýdis-klædin dýr, hermenn skrýdi huldu röndum, heima qvídi og naudin býr.

36. Númi hljódur ángur-augum, á þau tómu hérød brá, en nú framvód fyrir brúna baugum, borgin Róm í skrauti há.

37. Í himininn blá, svo hátt hann eygir, hædum frá sú borgin ný, turna hávum fleinum fleygir, þeir stjúgast á vid storma gný.

38. Múrinn breidi méti gljáir, mundi snillin eigi løk, þegar úr heidi sólin sáir, sínu gulli um kopar-þøk.

39. Virki í boga múrar mynda mikla kríngum borg þar stód, grafnir vogar vid þar synda, og verja híngad skémdar þjód.

40. Varnar festing hædin hædsta og høfudbólid stadarins er, kalla flestir kostа stædsta, Capítólíum nefnd sú er.

41. Hér á stendur hofid mesta, helgad fødur Júpíter, bygging kénd med fegurd flesta, flóda røduls geisla ber.

42. Borgin stendur vøndud vidum, vænst í heimi á þeirri tíd, Númi vendi ad hennar hlidum, hermenn geyma portin fríd.

43. Stódu í bláu brynjum vøndum, búnir sunda raudu glód, Odins háu eldibrøndum, upp úr mundum kynti þjód.

44. Kémur í stadinn Númi nýtur, nær ad skodast þar um kríng, en sérhvad, er augad lítur, ákaft bodar hildar þíng.

45. Málmar emja hátt vid hamri, hlífar lémjast stedjum á, engin hemja er á því glamri, eldar semja járnin blá.

46. Smidju hreyktist gufan gráa, glódir qveiktar brøndum á, skýum feyktu af hveli háa, og himininn sleiktu nakinn þá.

47. Hermenn þreyttir hildi læra, hlífum skreyttur sérhvør er; hesta sveittu í eyrum æra, orustu þeyttu lúdrarner.

48. Númi undrast, Númi hrædist, Númi grundar hvad til ber, Númi skundar, Númi lædist, Númi undan víkur sér.

49. Gégnum býinn leidir liggja, loks hann finnur kóngs rann, og aldurhníginn Tasa tiggja, til sín inn sá leidir mann.

50. Var nú Sjóla bréfid dreingur; brúna-sól á letrid skín, hann af stóli háum geingur, og halinn fól í ørmum sín.

51. Hann svo talar: heilla dagur, helst upprennur gömlum mér, að þig skal eg, frændi fagur, fá að spenna örmum hér.

52. Pompíls eigin augu þekki, eg og finn hans svip á þér, hugurinn segir, að þú ekki ástar þinnar synjir mér.

53. Létt er elli að bera bleika, börnum kærum sínum hjá, þegar hrelliſt hyggjan veika, huggun nærir beggja þá.

54. Dóttur fína einnig á eg, æsir slíngar dygðir góð, hana sýna svo þér má eg; sveinar híngað kalli sljóð.

55. Kappar sjá, með klæði valin, kémur gnáin sörfa nett; líkt við brá, og ljós um salinn líði þá, sem brennur slétt.

56. Marga þó sér fegri fyndi, frúin rjóð, er dygðir bar, til sín dró hún ást og yndi, ofur góð og náqvæm var.

57. Rúmi fljóði fyrir hneigir; faðirinn sitja biður sprund: þessi er bróðir þinn (hann segir), þægur vitjar oss á fund.

58. Pompíls fríða arfi er hann, opt sem frá eg greindi þér, sama prýði-bragðið ber hann, bæta sá vill elli mér.

59. Bú nú hjá oss, barminn fríði! bætast þín svo gæfa má, eingri þá eg elli qvíði, yckur mínum börnum hjá.

60. Máské skærri bønd oss báda, betur saman teingi hér, krónu skærri ríkis ráda, reisdum frama ann eg þér.

61. Fljódid vitra födurs góda, fulla meiníng skilur þá; kinnar litar rósin rjóda, sem renni hreinan blód í snjá.

62. Lýsti ad sveini ljósum brúna, leit hún eigi fegri mann, því í leyni lifna núna, ljúf tilhneigíng ásta vann.

63. Gékur sídan svørin fridur, sólar vidis stafur hinn, lofar ad hlýda í þeli þýdur, því sem býdur kóngurinn.

64. Ødlíng hneigir ord án kala: yfir-skyn eg vil ei sjá, hirdum eigi um hlýdni ad tala, hótin vina minnumst á.

65. Ætti eg leingi ríkjum ráda, en raunin skást þess vitni ber: mig hefur einginn hrædst, en háda hugar ást eg gjørdi mér.

66. Bý eg enn vid sømu sidi, sinn hefur máta valid hvur, vid alla menn eg midla fridi; en mikilátur Rómulyr

67. Afrámm keyrir ótta svipun, undirsáta vora í strío, lúta þeir hans þúngu skipun, þar til láta fjør um síd.

68. Uti' er hann, og orustu fremur, Antemnata kónginn vid; finna þann, nær þadan kémur, þá sem hvatast skulum vid.

69. Það hann sigri, efar eingi, aldrei kempa frægri var, búin vigri á orustu eingi, undir hempu Sigmundar.

70. Þegar fleins í grimmu gollum, geingur að morði þjóða sá, hann er eins í hernum øllum, hann ei fordast nockur má.

71. Vaxtar hár og harla digur, hristir ótta brúnum frá, svartur á hár og hermannligur, hefur þrótt, svo furða má.

72. Orðróm flytur afreks verka, undir tjaldi vinda lið, því høfuðið vitra og høndin sterka, hvíldar aldrei þurfa við.

73. Hann á dóttir, Hersilía, heitir þeingils drósin kær, þar um fljótt má fréttir drýgja, fegri eingin skapast mær.

74. Kærleiks leita Kørmt við bauga, kóngar dýrir vítt um heim, en stoltu beitir brúðir auga, og baki snýr við øllum þeim.

75. Von til skæðu-eggja anna, um sig slæðir hlífum grá, hjálmur klæðir høfuð svanna, høndin ræður sverði smá.

76. Frúin ríður føður meður, fram í stríð á vøldum jór, vopna hríðin hugann gleður, heila sníður margan kór.

77. Þegar ei hendur hrotta beita, hún er að varast fremur þá, því ástar tendrar elda heita, allra þar, sem brúði sjá.

78. Hvør sem lítur blómið bjarta, bara er frá sér numinn, enn, um ást ei hlítir heita að qvarta, hún forsmáir alla menn.

79. Þér eg inni sögu sanna, sikling ríka og brúði frá, feginn minnast mannkostanna, mundi líka, ef vissi þá.

80. Þú einráður úr mátt skéra, efnum nú og velja frí, heima í náðum hjá oss vera, hans eða búa tjøldum í.

81. Hetján segist heima bíða, og hilmi eigi skiljast frá, honum feginn fylgja og hlýða, fyrst þeim megi kosti ná.

82. Tasía heyrir hvað hann segir, hugar sprettur vonin mild, stúlkan eirir því og þegir, það var ettir hennar vild.

83. Númi er heima nockra daga, náðum undi og fordast glaum, en eitt sinn sveimar út um haga, og er að grunda þar sinn draum.

84. Heyra fær nú hrynur fleina, hvar um hýinn reynir fet, að skógur nær við elfu eina, Egeríu lundur hét.

85. Lifir í minni lindar-freya, er líta vann í draumi þá, í skóginn inn nam brautir beygja, bestur manna, og lundinn sá.

86. Lék andvari að lausa flugum, lifna sæla gledin kann, skógar hvar í breiðum bugum, býr indæla náttúran.

87. Þar heilaga þøgnin drottnar, og þánka sæta vekur manns, eikur vaga ellilotnar, undir mætum greina krans.

88. Þar skínandi og lystilegur laufa fjøldinn stígur dans, vindurinn anda valla dregur, vagga' á qvøldin þar er hans.

89. Hvad þid géiid líka látid, litlu fjadra hnodrarnir! hoppad, setid, fløgt í fáti, fram sem nadra aldrei kyr.

90. Saungvá þyljid, tóna teygid, og talkd um flesta hluti þar, en margir skilja ydkur eigi, utan bestu kunníngjar.

91. Þeir um rúman lund sér laumo, lidug meta raddar hljód, síngu Rúma sjón og drauma, sem þeir géta fært í ljód.

92. Hér vid dvelja hlustir nettar, hann vill bída í þessum stad, en hvørt þeir velja og vita hid rétta, vid skulum sídar tala um þad.



# Fjórda Ríma.

Heckir eigi hvørs manns hjarta, holds og sálar fylsnum í, qvenna ástar blossann bjarta, bródir! viltu neita því?

2. Hitt munú sumir hirda fátt um, í heiminum sædast ástir tvær, ólíkar ad øllum háttum, ætíd verid hafa þær.

3. Í vesæld steypir opt hin eina, en önnur snýr til hagsældar, mun á þeim eg mætti greina, mér eru báðar kunnugar.

4. Önnur, sú sem alment sýkir, og er máské heitust þó, í blóði voru og vitum ríkir, vökva sinn hún þaðan dró.

5. Hún nær ecki í hjarta sporum, þó heimsk- um máské finnist það, nei — í öllum æðum vor- um, idar hún og nær ei stað.

6. Ockar sálir ei sú hefur, ædri neinna þánka til, alla háa hugsun kéfur, og holdinu veitir frö og il.

7. Ein er hennar ósk: að njóta, og örmagn- ada sedja vild, sú er lítt til heilla hóta, en hin er þessu lítid skyld.

8. Á andar sig hún eining nærir, og á í hjartans fylsnum bygd, vidqvæm sig í hófi hrær- ir, hún er ecki girnd, en dygd.

9. Varminn hennar veikir eigi, vinunum er hún holl og trú, fullkomnunar fram á vegi, fýsnir allar dregur sú.

10. Gledin hennar hreina og klára, hitar, en brennir aldrei því; þó hún kénni finna sára, sæt þeim renna smyrsli í.

11. Virding, audur, hepp né hylli, hennar aldrei stólinn braut, og finni hún nauda fjúk á milli, í frómleikans sig vefur skaut.

12. Nú hef ég lýst þeim; leingra og meira, letra mætti um bádar þær, ef menn fýsti á ad heyra, en eg hætti — þad er nær.



13. Rúmi undi leingi í lundi, leidir sveigir hér og þar, lítur hann, sprund, hún lá í blundi, lík Skjaldmey ad búníng var.

14. Høfudid ljósa lagt hún hefur, létt á skjøldinn; vánga hjá, hjálmur dróstar, hýrt er sefur, hulinn øldu stjørnum lá.

15. Hárid bjarta brynju þekur; í bylgjum gyltum nidurflaut, allt hvad hjartans undrun vekur; augun fylti brúdar skraut.

16. Spjót eitt undir hefur hendi, hún í dúni skógar lá, ljósid Pundar ljóma sendi, linda túni meyar frá.

17. Svona í drauma dái liggur, Día ljóminn, Freya ber; þángad laumast Loki hyggur, og lágt í grómi falinn er.

18. Flakir um bríngu og meyar maga, men brísínga hálsi frá, blódshræríngar léttar laga, liljur kríngum brjóstin smá.

19. Svefninn býr á augum úngum, eru þau hýr, þó felist brá, raudur vír á vánga búngum, vefur og snýr sig kríngum þá.

20. Sig innvikla í rósum rørum, raudu taumar eda blá, litir sprikla létt á vørum, og laga drauma brosin smá.

21. Andinn hlýr, sem ilminn nýta, óspart lénar vitum sínu, í lífinu býr og brjóstið hvíta, í búngur þenur og dregur inn.

22. Húðin skæra hønd og fótinn, hægt í kríngum vafin er, um sívøl læren, liðamótin litla hríngi marka sér.

23. Dúir andinn undir nafla, en svo hvít er hørunds brá, sem hlæjandi sólin skafla, silfur spýti geislum á.

24. Loka bugar brá skínandi; bragða hugur stansa fer, hann varð fluga eða andi, og nauðugur leyndi sér.

25. Øllum píkum yndislegri, svo eingin skeþ eg til þess finn, Freyu lík, æ lángtum fegri, í lundi sefur Skjaldmeyin.

26. Í huga hverfur Núma núna, næsta það og trúlegt var: að hann Minervu hlífum búna, hátignaða sjái þar.

27. Krýpur hann á kné sín bæði, kraptar þrotna líkamans, best sem kann af bæna fræði, bauð með lotníng túngan hans.

28. Vaknar núna af svefni svanni, sýndar fljót og skøruglig, lýsti brúna báli að manni, og bregður fótum undir sig.

29. Allt var senn, að hjálmur hylur, høfuð, og brandinn þrífur mund, ræðu hennar halur skilur, hnéfallandi á þessa lund:

30. Hvør ert þú,' hinn heimski reckur, hér sem vógar leyna þér? djorfúng sú þér hvørgi hreckur, høggva og ad spilla mér.

31. Væri eigi vansi sljódi, vopnlausan ad myrda svein, skyldi þveginn brandur blódi, bana kanna láta mein.

32. Númi segir: gydjan glæsta! guddóm augad þinn nær sá, eg vard sleginn ótta næsta, innstu taugar gégnum þá.

33. Féll eg nidur, fætur eigi, feingu borid líkamann, og nú bid eg forláts feginn, flýta sporum hédan kann.

34. Náviſt há þín hjartad sýkti, hverf eg frá og þig tilbid; svarar þá og málid mýkti, mærin smá og brosti vid:

35. Heidur veita himin-Día, hladinn ótta ei þarftu mér, vit: "eg heiti Hersilía, hepp-in dóttir Rómuls er.

36. Sverdi nú á skjöld hún skéllir, skari sveina kémur þá, med fagurbúinn fák á velli, frúin hrein þar stígur á.

37. Lítt og tinda sal frá sendur, svipu vind-ur jórinn rann, nærri blindur Númi stendur, næm ímyndun fjøtrar hann.

38. Hann ófridar þánkar þreyta, þola vid svo hvørgi má, blódid idar ofurheita, ræda nidur um læki smá.

39. Til hlaupa tekur hetjan móða, hvatast kémur inn í Róm, feril rekur fákíns góða, fljóða sem að rídur blóm.

40. Til hann vendir Tasa sjóla, titrar andi, føl er brá, og þar stendur sjóar sóla, Sjøfn skínandi kóngi hjá.

41. Hún til kynna kóngi géfur, komu snara Rómúlar, sigurinn því høndlað hefur, hetjan þar sem randir skar.

42. Að allt til reidu sé, hún semur, Sigtýr kjóla vidur þá, þegar heidur krýndur kémur, Capítólíum gramur á.

43. Núma sér hún, þennann þeckir, þeingil spyr hvad manna var, hilmir ver þess hana ecki, hugar kyrr og géfur svar:

44. Sveininn góda (svona tér hann) til sonar valid hef eg mér, af kónga blódi ockru er hann, og erfa skal mitt sæti hér.

45. Númi stendur farfa følur, fæstu gat ad veita ans, en nú sendi sjónar vølur, silkifata jørd til hans.

46. Farfa snaudum hitnar heldur, hrínga Audar móti brá, litur raudur líkt og eldur, logadi og saud um kinnar þá.

47. Skjøldúng sá hans skipti lita, en skilur eigi hvad til ber, því ellin gráa ástar hita, eingannveginn leingur sér.

48. Allinn heima (hilmir tjáir,) hinn á-gæti sæmdar mann, enn er feiminn, sem þér sjáid, sú mun bætast fávitskan.

49. Nærgætnari seima sunna, sá hvad úngum manni leid, lofdúngs svari létst þó kunna, lyndis slúngin bauga heid.

50. Hún ad vana hugann stilti, en horfdi á mann er fegurd ber, eins og hana einu gilti, ástir hann þó festi á sér.

51. Býst nú snúdug burtu sæta, brjóstid leynir fegurd manns, en í því brúdar augun mæta, edalsteinum brúna hans.

52. Hvarmbragd eitt (þad undrum veldur) innstu svífur gégnum taug, þad var heitt— ó þad var eldur! þadan líf og kraptur flaug.

53. Rúma hjartans von þad vekur, vænstu hreifir gledi því; en mærin bjarta med sér tekur, mynd hans reifum kærleiks í.

54. Burt er frúin; bestur dreingur, bænir kvaka í leynum má, sá er ei nú hinn sami leingur, sefur og vakir brúdi hjá.

55. Í ástar flasi fremd þó bresti, á fljódi nærir sál og géd, gleymir Tasa og Túlli Presti, og týnir værum dygdum med.

56. Daud eru ráð og dofin hyggja, dug-ur tekinn líkams hver, girnd áfjad vill brjóstid byggja, burt hún hrekur allt frá sér.

57. Þánkar hreinir hjartans slýa, hvørgi í meinum því er rótt, hugsun ein er Hersilía, hans í leynum dag og nótt.

58. O þú þeingils ástvin kæri! sem øllu geingi týnir hér, skulu eingin undanfæri, einum leingur duga þér?

59. Hvar eru nú þíns fóstra frædi, føst sem þú í huga barst? og Himinbúa heitin gædi, helst sem trúa ljúfur varst?

60. Og því mundi ei til líknar, ódfær stunda Seres frú! og kýngi undan sýsnasíknar, sá þér hrundid breiskum nú.

61. Skal þá eldur einnar girndar, ofurseldum granda hér? æ! hún veldur fári firndar, og forløg géldur versu þér!

62. Þú vilt deya í sýjna funa, falin megin eru skjól, og sérd þó eigi ólucfuna, sem í þér fleygir heljar ból.

63. Ad því víkjum: víga sekur, vídfrægur um lønd og geim, kémur ríkja rádur frekur, Rómúlur úr stridi heim.

64. Honum fylgir hraustur skari, í hópa talinn, búinn geir; líkt og bylgjur lá um fari, leiti og dali bruna þeir.

65. Lystugt klíngja ljósblá stálin, ljómar hríngjur gyltar á, hornin spúngja sigur-málin, síns foríngja raddar-há.

66. Móti tiggja trúr að vonum, Tasi og hyggin þjóðin ser; eldar byggja á øltur-onum: offur þiggja guðirner.

67. Rómúl þar má þeckja snjalla, þegnar fara um hérøðenn, høfuð bar og herðar allar, hilmir snar yfir aðra menn.

68. Í kérru fór um foldar haga, fylkir stór, sá veldur geir, hana fjórir hestar draga, hvítir vóru litum þeir.

69. Styrjar kjóli er hulinn hamur, Herjans sól þeim geisla ber, á Capítólíum kémur gramur, krýndur hóli og sigri er.

70. Af vagni treður vøll til grunna, vikna réði jørðin þá, krónu með hins yfirunna, að altari veður Jóvis sá.

71. Hana í salinn heingði, og breiddi, hend-ur glaður út frá sér, þannig talar þá og beiddi: „þrátignaður Júpíter!

72. Meðtak fyrstu fórn þér veitta, fleiri listir skaltu sjá; svo skal eg hrista sverðið beitta, sigur-þyrstur héðan í frá.

73. Auk þú veldi vort og hreysti, verald-ar seldu løndin mér, þackir géld eg þér og treysti, þessi feldur kóngur er.

74. Ver ei þinnar gæðsku gleyminn, géf ei linni barðagar, uns að vinna allan heim-inn, ættstofn minn og Rómverjar."

75. Naut hid mesta vørdur valda, í vala fjøllin hremmir grá, tuttugu prestar hræddir halda, horna trølli velli á.

76. Vødva gróinn krapta kéndi, klæddur brynju sjóli var, uxann dró í einni hendi, ad altarinu og feldi þar.

77. Barkann snídur bola felda, benja gríd-ur Rómúlar, klerka lýdur offur elda, ad honum sídan kyndir þar.

78. Þegar eldir offur-báli, ødlíng skund-ar ranni frá; kallar heldur hvellu máli, hers þúsundir sínar á.

79. Eitt þó land vid vinnum, vinir, (vekur hann beimum þannig svar) ótal fjandar ockar hinir, eignir geyma veraldar.

80. Mørg eru enn í Ítalíu, ósigrud hin føgru lønd, sverdin spennum svo ad nýu, signi gudinn vora hønd.

81. Hvíld þó finni fólkid blída, fyrr en búist menn í slag, børn og qvinnur fadma frídar, fáid þér nú í allan dag.

82. Marts á velli ad-morgni allir, mæt-umst vér í hildar kjól, horna gélli hljómar snjallir, úr hafinu ber þá stígur sól.

83. Méti þjód, sem Marsar heita, mun-um strída-verda enn, vid ógóda er þar ad þreyta, þeir eru grídar hraustir menn.

74. Heima sinnum setum valla; sóknar reynum vedur brád, þar til vinnum veröld alla, og veldum einir hefum nád.

85. Mæti því á mældum velli, máttugt lid ad reyna kíf, þar í týgjum fyrst á felli, foríngi ydar veldur hlíf.

86. Þjód óveila þekji brynja, þegar fald á degi sér! látum heila heiminn skynja, ad hvíldir aldrei þurfum vér.



# Fimta Ríma.

Vandi er þeim, sem völdin á, vel á tignarstóli drottna; mikils verd er maktin há, ef manndygd lætur eigi þrotna.

2. Margir kóngar mjög ad dád, málum öllum vilja snúa; en ef þeir hafa íllgjörn rád, undir þeim er neyd ad búa.

3. Sá med eigin augum sér, ecki nema slots hræsnara, undirsáta örlög hér, ecki kann frá meinum vara.

4. Slíkur múgur vísir ver, ad vant ad stjórnar háttum gæti; fólkid kúgast, fantaruer, flyckjast upp í válda sæti.

5. Til ad sedja fysna feikn, flesta kosti þá er völ um: brjósta krossa, titla og teikn, tekst ad fá med ríkisdölum.

6. Einn ef hyggur ødrum tjón, eitrudum hreifir laga skjølum, eg kaupir margan þarfa þjón; það fæst allt med ríkisdølum.

7. Allt skal vinna aptan til, og í læstum ráða-sølum; svo er vænt, ad vinnist spil, ef vafinn midlar ríkisdølum.

8. Eitt mér vanta þykir þó, um þetta efni fyrst vid tølum: hamíngja sønn og hjartans ró, hún fæst ei med ríkisdølum.

9. Bølvin eins og voisins blóm, visna þegar haustid kémur; þá skal undir ædri dóm, øllum málum skjóta fremur.

10. Heill á vorum høgum er, (heims forsmáum tírannana), gæfan oss því vanda ver, valdi undir Fødurs Dana!

---

## 11. Lofdúng, eptir lesinn dóm,

lætur farid heim ad solum; mikinn gjørdu Rómar róm, Rómúlar ad fyrirtølum.

12. Númi þoldi valla vid, (vaka ástar fárin) leingur, Tasa kóngs vid hægri hlið, hugsandi og lotinn geingur.

13. Rennur honum í þánka þá, þúngu hlífar trøllin hvetja, vísi fylgja valþíng á, og verda ellum frægri hetja.

14. Ad verja brúdar væna líf, og vera hennar brjósti skjøldur; vada svo med hild-ar hníf, heitar gegnum dreyra øldur.

15. Þetta metur þánkinn skást: því er hann fús til hrydju verka, mætti vinna meyar ást, máské um sídir høndin sterka.

16. Eins og barn í fata fald, fálátt sinnar módur togar, fúst á hennar fadma vald, en fúla ad taka sig ei vogar;

17. Þannig Númi þeingli hjá, þrammar yfir vega buga, minnast þorir ecki á, umbrotin í sínum huga.

18. Lokfins byrjar budlúng mál: besti vinur! þú munt greina, mér, hvad þína þjáir sál; þad ad bæta mun eg reyna.

19. Númi létti nockud ønd, nádi þannig ordum haga: lángar mig med hjør í hønd, hernum med í stríd ad draga.

20. Fadir minn vann og vardi lønd, verkaflót um Skøglar haga; þú hefur líka vígavønd, vaskur reynt í fyrri daga.

21. Eins og þid vid geira grønd, ef gæfan vildi svo til haga, lángar mig ad rista rønd og reyna upp í hina ad slaga.

22. Gamall brosti gilsi þá, glædur í hetju brjósti lifna: „þú skalt, son minn, fara frá; fýsi þína met eg þrifná.

23. Hildar skaltu slíkur fá, fara med þér gamlan tídir, mig, þó ami ellin grá, og þér kenna Spjóta hrídir.

24. Enn þá mínar hærur hjálm, held eg kunni þúngan bera, enn mun þeßi armur Skálm, ufla kunna med ad gera.

25. Gaman er, í gøndlar þey, gráum járnum hlífar stínga; kætir mig, ad kólnar ei, kónga blódid Sabínínga.

26. Fadmar gramur svinnan svein, sem ad nockru leiti kætist; þegir hann um sitt ástar mein, ecki þad ad sinni bætist.

27. Herklæda í herbergid, hérnæst bádir frændur gánga; Níúmi tekur vopnum vid, og valinreyndum ættartánga.

28. Gyltan hjálm og hvítan skjøld, hetjan fær, sem trautt mun rofinn, og silfurbrynju, sem tvøfold, saman var í hríngjum ofin.

29. Brynjan steypist búkinn á, bjørtu þrístir hjálmur enni; eins er honum, og allar þá, ædar gégnum logi brenni.

30. Þegar spennir høndin hjør, hjøltin Ránar sólir mála, en augun hvøß og ýrmilsnør, eldíngum um bladid strjála.

31. Eldaskídi Odins beitt, í óßjálfrædi høndin skekur, til og frá; en hjartad heitt, heiju brjóstid valla tekur.

32. Svo hamóda hefur Þór, haldist vid í brúdar klædum, Mjølner þegar mundum fór, máttar heittist blód í ædum.

33. Tási gengur heim í höll, hans og frændi tíguglegur, herklædi sín aldinn öll, á sig þar hin fornu dregur.

34. Dóttir hans hin dýra sá, drengi búna rönd og sverdum; henni við í brúnum brá, hjóst hún ei við þessum ferdum.

35. Silfur beltis Prúdi þá, þúngt í hugar gjördist leynum; hetjan velti henni frá, hálfnaudugur sjónar steinum.

36. Födur sínum féll um háls, fljód, og qvad med trega sárum: „viltu nú í vinnu „stáls, vopna þig á grafar árum?

37. „Hvör á ad vernda land og lýd, líkna „snaudum, hugga þjáda, ef þú dregur út í „stríd, sem allir qvedja fyrst til ráda?"

38. Gamall kóngur grét og hló, gódri dóttur kossum tærdi; hjálminn yfir hærur þó, hrædilega þúngan færdi.

39. Rúmi út um hallar hlid, hljóp, en kóngur fetar eptir; úngur þolir ecki vid, en ellin gamlar fætur heptir.

40. Rúmi hérød yfir öll, ædir líkt og hvirfilbylur; út er hann kominn einn á völl, ádur enn Sól vid rúmíd skilur;

41. Leid nú hún svo létt úr mar, á ljósa brúnir steypti glódum; fagurbúnar fylkíngar, flyckjast núna á völlinn ódum.

42. Í Kérru ríða reckar sjá, Rómúl prýði skrúða þakinn; við hans síðu lángur lá, laus við hýði brandur nakinn.

43. Hersilía blómann bar, búin týgjum gulli földum; sýndist því hjá sveitum þar, sem sól í skýa fljóti eldum.

44. Vagni situr vísið á, vafur loga búin flóa: deili líta mangi má, meta, þar sem týgin glóa.

45. Tasi rædir ríkur við, Rómúl þá, og Núma leiðir: „ebli gæðin guðalið, Göndl„ar láin þar sem freyðir.

46. „Eg með mínum frænda fer, fellirs „beýna eggjar gladnr; hér eg sýni sveininn „þér, serfa týnir verður maður!

47. „Kémpan frið er kóngborinn, krónu „mína skal hann bera; hann vill prýða herinn „þinn, og hjá þér fyrst í skóla vera."

48. Þannig rædir Rómulur: Rétt velkomian sveinninn dýri! hann á svæði síðlátur, Sabínínga Fylking stýri.

49. En að hlífa eldnum þér, ættir þú fyrir bríðum sverða, ef orustu ýfir mátt með mér, margt um ríkið kann að verða.

50. Þegar standa þessi ráð, og þarf um bót að tala fremur, tárfellandi tvinna láð, Tasía móti sjólum kémur.

51. Fram um svæði fylgðu þar, fljóði, er gæða ráðum unni, eckjur bæði og øldúngar, ángurs qvæði hafa í munni.

52. Kríngum Tafa qviknar mál, konur og fmáu bornin veina: Þér ørvasa hið þúnga stál, þeigi tjáir fremur reyna.

53. Þú, sem faðir allra ert, yfirgéfa mátt ei pína; ockur, það er opinbert, ell þá vefur neyð og pína.

54. Hnéfallandi hrépar þjóð: hjá ofs bú þú, faðir kjæri! Nú þegjandi stillir stóð, steinkins og loftinn væri.

55. Tafía herðir tárin á, teingir um sjóla arma bjarta; linast verður lofdúng þá, til líknar viknar kémpu hjarta.

56. Rúma qveður kosti með, kappann biður heilan fara; síðan treður bjarnar beð, til Borgar heim með sínum skara.

57. Rómúls klíngir roddin klár, ríður hann fyrir liði framan; í fylkíngar þyrpir þrjár, þúsundunum øllum saman.

58. Fyrst skulu ríða Rómverjar, ræsir sjálfur þessum stýrir; aungvum hlýða ødrum þar, óðins bjálfa gautar dýrir.

59. Sabínínga fylkíng fer, fram því næst á víga svæði; þann órúngan halda her, Hersilía og Rúmi bæði.

60. Fyllir drjúgán fylkis her, flockur sá er járnið vefur, Latsíu búar lýð-skylder, af löndum þeim hann unnið hefur.

61. Metsíus ræður mönnum þeim, mesti kappi Sabíninga; fyrr á svæði fylgdi heim, fóður Núma sverðs til þínga.

62. Númi hvítum hesti reið, hetjan bar sig vel í sæti; klárinn nýtur kunni skeið, qvikari var enn ljón á fæti.

63. Létt, sem flýgi lausa mjöll, lék skevaður söðulbogá; reydar týgin eru öll, Udar hlaðin vafurloga.

64. Hersilíu vagninn við, vóð hinn stinni Jór á beinum; Númi því á þessa hlið, þeyta kynni brúna steinum.

65. Blása menn til burt-ferðar, byrja hætta reisu þora; grundu renna glófaxar, götur og stræti járnum spora.

66. Eins og möckur myrkur, sá, úr meginhafi fram sig dregur, færir röckur frónið á, fer ákafa hryllilegur;

67. Bólginn sá af illsku er: eldi, snjá og fellibiljum, niður stráir, fram þar fer; föll í bláum tryllir hyljum.

68. Svipir vinda svartir þá, sólar blinda augað skæra, flestar kindir fæla og þjá, frónið, lind og himin æra.

69. Honum líkur herinn er, hvar sem strýk-ur foldu yfir, undan víkur ódum sér, ógnum slíkum hvad sem lifir.

70. Þar sem voda líd um lád, ljóns í ædi trylltu geingur, undir trodid akra sád, einga fædu gefur leingur.

71. Skógar brotna, skadast jørd, skjólin brotna flestu vidur, mordvopn drottna hollri hjørd, húsin gotna fellast nidur.

72. Landa búar verda vid, vinnu sína og eignir skilja, því þeir slúa hid leida lid, og lífinu einu bjarga vilja.

73. Sakalausum leingur þá, løg né skyldur ecki hlífa; hvad sem kaus og hirda fá, hjarta-daudir menn aflífa.

74. Þannig geingur þvílík ferd, þar sem styrjar flockar sveima; hún er engrar æru verd, eydilegging vorra heima.

75. Lída vegir léttfetans; lofdúng Róma-borgar kémur, vestanmegin Marsalands, vid módu eina stadar nemur.

76. Tjøldin reisa þjódir þá, þétt med vegg-jum stofu ála; Gjálpar eisa glóir á, gylt-um húnum dúka-skála.

77. Um dægramótin sveitir sjá, sína ferd á báti géra, yfir fljótid ýta þrjá, sem Dr í vinstri høndum bera.

78. Skál af tré í hægri hönd, hafa þeir, og Rómul finna, falla á kné og vekja vönd, vina málin landa sinna.

79. „Marsar bjóða þannig þér, þýða „qvediu, drottinn Róma! allt hid góda, er „eigum vér, ødlast skaltu, tign og sóma.

80. „Ef menn vanda vina mál, vid oss, „þeim vér hollir erum, og þeim til handa þessa „skál, af þorfum kosti fulla berum.

81. „En ef mein oss ætlid þér (ei vér „munum hyga týna), pílu eina eigum vér, „óvinonum til ad sýna.

82. „Vort er smátt og vesælt bú, vasid „fjalla þraungri skýlu; velja áttu, Vísir, nú, „vidar-skál eda þessa pílu."

83. J bragdi grílu budlúng qvad: „bygd „og landid skal eg vinna, fá mér pílu, og „fardu á stad, frá oss heim til nauta þinna."

84. Aptur svarar sendi-mann: „sjái gudir „til vor beggja! segi eg hara sekadan, sak-„laust fólk til strids ad eggja.

85. „Vér skulum þroka og verja best, vesl-„íngs eignir heima-kynna, en þú, sem hroka „hreisir mest, hrædslu reidi guda þinna."

86. Rómul tekur reidin þá, rædu lætur þannig duna: „hvør mig frekur hrædast sá? „heimar aldrei til þess muna."

87. Síðan fara sendi menn, sína leið á ormi fjalar. Rómúlar var reiðinn enn, tunnin ei: hann svona talar:

88. „Á morgun, þegar sólin sést, og sverð „minn sterki armur skekur, yfir dregur fólkið „flest, fljótið þá, og orustu vekur.

89. „Nú í dag ef þursið þið, þjáðir nýrrar „fæðu viður, byrjið slag við bónda lið, og „britjið þeirra fénað niður."

90. Þaðan skundar her óhýr, hyggur nú til mikils vinna; fólkið bundið, fé og kýr, færðu þeir til tjalda sinna.

91. Skiptu ráni sínu senn, sveitir, eins og þókti bera; konur smána, en myrða menn, til matar naut og sauði skera.

92. Rúmi þá til þengils geck, þessu fólki vægðar beiddi; þriðjúng sá af flocknum fëck, og fram á skóginn þessa leiddi.

93. Farið, segir hann, heilir heim, hérmeð látum ockur sætta; gull óvegið gaf hann þeim, svo gripi sína feingi bætta.

94. Byrja fer svo bæna hljóð, besti qvist-ur mána Rínar: „láttu, Seres, saklaust „blóð, saurga aldrei hendur mínar;"

95. Guðina biður sín til sjá, svo með fleirum orðum hǫldur; líður niður úr lopti þá, logandi í gulli skjǫldur.

96. Þar á standa þessi ord, þad í gyltum Rúnum sjer hann: „Aldrei grandar „manni mord, medan Guda skjøldinn „ber hann."

97. Rúmi kætist, skygdann skjøld, skilur hann sér gefinn vera; hérnæst lætur heim í tjøld, hestinn sig á spretti bera.



## Sjøtta Ríma.

Rádugt er þeim nauda frí, í náttúrunnar skauti byggir, þar sem ekkert ama ský, yndis sólar ljósin styggir.

2. Fedur vorir vøldu sér, víst í dala skjóli græna; sinnar gætti hjardar hver, og happa rækti búid væna.

3. Aldinn feita akra fløt, øldúngana gømlu fæddi; þá í heit og hreinleg føt, hjørd af sínum skrúda klæddi.

4. Margt ágæti um grundu þá, gróa þeir med idni sáu; dryckinn mæta máttu fá, af módur sinnar ædum bláu.

5. Voru hraustir, hæglindir, hyggju gæddir nógri frædi, vinum traustir, vandlátir, verkum ad og sidum bædi.

6. Lifdu rótt og leingi þar, (leingstu til þess aldir muna), frúr ótta ánaudar, elskudu Gud og náttúruna.

7. Ef að gerðust upp á þá, ærufíknar þrælar háir, beittu sverði brugðu þá, bændurnir til varnar knáir.

8. En, því miður, opt og þrátt, af náttúru frjálsum sonum, rændu frið og flæmdu sátt, flockar liðs með tírønnonum.

9. Hér til dæmin höfum vér, heims af Søgum fleiri' enn viljum; þau eru slæm, og því er ver, að þau ei ennú við oss skiljum.

10. Nær skal hreœsa hamíngan, hrelda menn og nauðum þjáða? nær skal blessuð náttúran, nockurnvegin fá að ráða?

~~~~~~~~~~~~

11. Minnumst nú á Marsalands, menn, sem von á stríði eiga, eptir søgu sendimanns, síg til varnar búa meiga.

12. Kónglaus þjóðin þessi var, þjónaði sér og náttúrunni; einginn vald yfir bróður bar, sem befalíngar géfa kunni.

13. Fóru því við fregn um stríð, foríngja sér að velja ýtar; margir voru lands af lýð, listamenn og kémpur nýtar.

14. Þegnar géra það uppskátt, þrjá að velja kappa dýra; hvur sem hefur mestan mátt, megin hernum á að stýra.

15. Einn af þessum Alor hét, afli sínu mikið treysti, kémpan ønnur Líger lét, lítið buga sína hreysti.
~~~~~~~~~~~~

16. Hektor var hinn þridji þá; þessir fram á skógimi gánga, hríngju festa uppi á, eikar topp med festi lánga.

17. Festin jørdu fellur á, firna þúng af járni gráu; nú skal reyna, mest hvur má, meidar svegja krónu háu.

18. Hektor fær á festi hønd, fellur í, sem mest hann gétur; eikin hrærir hríslu vønd, honum tekst nú ecki betur.

19. Líger kémur og leitast vid, leggjadigur og herda-þrekinn, sígur hann á handfángid, hyggur síst ad verda rekinn.

20. Ofan bognar eikin þá, einga krapta hetjan spardi; en þar ecki meira má, madur slepti festi hardi.

21. Alor kémur út á vøll, ofur hár og firna digur; þángad mæna augu øll, ætla víst hann fái sigur.

22. Fer hann undir fastan stein, festi yfir um bakid tekur, hart vid spyrna hraustleg bein, háan vidar toppinn skékur.

23. Sígur hann á festi fast; forkurinn mikli dregst í boga, en afreks madurinn ørmagnast, eikar stofninn vid ad toga.

24. Eikin fær sinn edlis mátt, upp á lopt hún manninn þrifur; í festinni hann hángir hátt, en hvatast nidur á foldu svífur.

25. Kalla tekur herinn hátt: „hann skal „ockar lidi stýra; enginn hefur meiri mátt, „mun hann fėndur gjøra rýra."

26. Þegar sigur-hljódin há, herdir þjód med gledi-sladur, vedur fram á vøllinn þá, vígalegur og gildur madur.

27. Hár og digur undrum er, ytst hann klædir húd af ljóni; kallmannlegur kylfu ber, í krapta skædu hauka fróni.

28. Ljónsins eru kræktar klær, í kross á hetju brjósti framan; til hann fer og festi nær, vid fólkid slær svo upp á gaman.

29. „Fyrst ad eikin undra há, ecki hefur lidid bana, eg ad leiki líka má, leitast vid ad beygja hana.

30. Þannig segi' eg lokid leik, lánga festi kėmpan þrífur, hristir, sveigir, hrekur eik, hana upp med stofni rífur.

31. Þetta undrar alla þjód, Alor sjálf-um bløskrar næsta; innan stundar heyrast hljód: „hann skal stýra flockum glæsta.

32. „Hann oss meinum hvurjum ver, „hreysti madur á styrjar þíngi, honum ein-„um hlýdum vér, hann er Marsa lids-fóríngi."

33. Hetjan segir: „ósk mín er, ein, ad „fylgja hraustu meingi, en fýsir ei ad fylkja „her, fram um Skøglar randa eingi.

„Hreysti er góð, en vitska er vænst, „víga þegar troðum stíginn; veit eg þjóðin „velur kænst, vitran mann og aldur-hníginn."

35. Gamall svarar Saffanor, sá var Marsa ráðgjafari: „þú skalt fara Foríngi „vor, en fyrir þig vil eg midla svari.

36. „Hernum mæti höfdínginn, heitið „segi, en leyni valla." Andsvör lætur lagast hinn: Leó megið þér mig kalla.

37. Fæddur er eg á fróni hér, flestar tíðir bý á skógi, fátæklega, sem þú sjer, og safna lítið aura plógi.

38. En fyrst að snara fýsir drótt, til foríngja mig í stríð að hylla, vil eg fara nú í nótt, náðum Róma grams að spilla.

39. Hundrud átta eg hafa skal, hrausta vera af ydar sonum, og í nátt með eld og fal, usla géra í herbúðonum.

40. Rómar varast valla það, værdar meðan tíminn stendur, nú skal fara strax af stað, stálin skrýði menn og rendur.

41. Þessu sinnir Saffanor; síðan ráðast menn til ferda, sem hafa inni afl og þor; að anni svo þeir gaungu herda.

42. Sínu liði leynir hljótt, Leó þar með kænsku rara, þar til mið er metin nótt, móðuna þeir yfir fara.

43. Undan gengnr foríngi fús, firna kylfu um axlir reidir; elda dreingur hittir hús, her= inn þar sem kráſir ſeydir.

44. Tekur hann ſkídi eimi á, og eldum hýdir ſkálann nauma, vekur lýd ad víga þrá, vid ófrída nætur drauma.

45. Harnar víga hrídin þar, heljar ſígur blód úr ædum, verda ad hníga varðíngjar, vals í ſtíga raudu flædum.

46. Tjøldum braka eldar á, áſa þakid myl= ur nidur, med harma qvaki hørdu þá, Hildur vaka alla bidur.

47. Kémur þar frá Niflheims nid, nedan ſkrimſlid bláa Helja; er hamfara óvættid, offur ſitt ad fánga og telja.

48. Bølvud gríla bløck ad ſjá, bana vinn= ur lidi hrønnum; eitur=pílum fíngrum frá, ſleygdi inn í hjørtu mønnum.

49. Húu um becki æda ód, áfram ſkreid á fjórum hrømmum, ſaug og dreckur dauda= blód, drjúgt af neydar ſkálum rømmum.

50. Vard því digur verſka trøll, vid þann brunn, úr ædum lekur; ógurligur allan vøll, ófreſkjunnar búkur þekur.

51. Skrimſlid annad, nidſvort Nótt, um náinn ſlædir døckvum klædum; fer med bann og blindar drótt, blóds í hrædilegu flædum.

52. Hrønnum dóu halir þar, um heljar vega blóds í ginum; svartar hlóu systurnar, ad svadaligum járna hrinum.

53. Hins má géta, hardlyndur, harla fimur sverda verinn, rís úr fleti Rómulur, rodd hans þrymur gégnum herinn.

54. Stillir dregur vígs á vøll, voda reidir œstartánga;: hrilliley því feingu føll, frídir meidar gullinspánga.

55. Allra hrædir hugar ró, holar blæda undir taka, kóngurinn æda øslar sjó, elda glædur þar sem vaka.

56. Hvar sem fer hann, fellur her; fáir géra móti standa. Leó sjer hann ad hann er, ódur og ber med kylfu fjanda.

57. Þángad bráuzt med þúnga raust, þeingill hraustur til hans kémur, høggid traust var hlífdar laust, í hluti slaustur Ullar lemur.

58. Brandurinn stóri brjósti nær, bilar megingjørdin ríta, en ljóns þar vóru læstar klær, sem laufinn egi mátti bíta.

59. Leó módi magna í, móti honum rédi gánga, vedur blódug víga ðý, vørn Hákonar reidir lánga.

60. Ræsir æri Róma lands, reidir glíka Brandinn stránga, kylfu slær úr hendi hans, hún svo fýkur vegu lánga.

61. Lofdúng vedur óvin ad, og hann kaus ad selja grandi; hinn ei tredur hót úr stad, hlífarlaus fyrir noktum brandi.

62. Fángbrøgd ramur festi á, fylkir stríða vígs um elfur, gánga saman og glíma þá, grundin qvídir vid og skelfur.

63. Nifflúng fleygja nadi má; nú skal hreysti reyna leggja, svo af megin-þrótti þá, í þrimla kreistist holdid beggja.

64. Visid bifast Valgautar, verda rif-in hennar klædi, af til-þrifa ógnum hvar, oklar hrifu nakid svædi.

65. Frábært manna ædid er, eldur brann af hvarma tinnum, milli tanna froda fer, flói rann af sveittum kinnum.

66. Leó stífur verka var, vígs ad glfurlegu ædi, brynju rífur Rómular, svo ræsir svíf-ur á kné sín bædi.

67. Stein í hendur hrífur þá, hinn, sem stendur eigi smdan, hilmirs sendir herdar á, hann, svo enda-fallinn lá hann.

68. Blódid svart af vitum vall, vísis hjarta aungvit þrífur, eptir hart svo fengid fall, fill-ir snart vid náinn blífur.

69. Mildíng daudan metur þjód, med hann, þá til búdar fara, þvo hid rauda af búknum blód, og budlúng sjá á lífi hjara.

70. Leó minnumst aptur á, ecki linnir þróttur halnum; kífs í vinnu-kósi sá, kylfu finnur sína í valnum.

71. Skaptið kreisti høndum hann, henni treysti best að voga, kapp og hreysti í brjósti brann, brúna neistar fóru að loga.

72. Hamarinn forðum þannig Þór, Þryms hjá borðum fékk í hendi, trollum morð og meiðsli stór, Mjølnir orðalaust þá sendi.

73. Ondótt hvesti augu þá, eldi sló af tinnum brúna, trollin vestu forløg fá, flockar dóu þeirra núna.

74. Líkur honum Leó þar, lið um grundir feldi niður, í niðmyrkronum ná-hríðar, nøtraði undir jarðar qviður.

75. Kylfan molar allt og eitt, øld má þola helju krappa, blóðið skolar harla heitt, hendur á svolalegum kappa.

76. Búinn dauði øllu er, ef þar nockra støðu tekur, eins og sauði undan sér, allann flockinn Leó rekur.

77. Þrumur branda fældu frið, fjalla bukði þakið dofið, girðíng landa glumði við, gat ei Huldufólkið sofið.

78. Kolsvört Gríma þrasir þar, þrumur af brotum skýja hrína, stjørnur híma hugslausar, hvurgi að notum birtu sýna.

79. Lítid veit um ljósin þá, loptid skýa drúngi kéfur, mikilleitur Máni þá, mocknum í sig kaldur vefur.

80. Volt í heimi er veran þá, voda sætir þjódin slögum, stormar sveima svalir á, svörtum nætur vængjadrögum.

81. Vid svartálfa myrkur mest, manna blód og daudra hauga, hjörtu skjálfa af fælu flest, fyrir ógódu sjónum drauga.

82. Hvad sem skédur mest til meins, af myrkra sendur ófreskjonum, Leó vedur á-fram eins, eckért stendur á móti honum.



## Sjöunda Ríma.

(Ný Lánghendíng)

Líkt og fljótid, læst i klaka, leysíng skjóta snjóa vidur, af sér brjóti blá jaka, og belji ad mótum sjóar nidur;

2. Og sem stíu úr farveg réttum, frá sér rís-ur jörd og steina, og med líst á ökrum sléttum, áfram drífur vatnid hreina;

3. Ísum rydur, eins og sjödrum, af sér nid-ur í þúngum spaungum; gnaudar ida á grundar jodrum, glymur klicur strauma laungum:

4. Þannig hrædi harpan ljóda, hugarmædi

lángt af vegi! hjartad fædi glēdin góda, svo gaman qvædin fljóta megi!

5. Þannig seyki andar ama, edla marar ljóss frá Thri, eg, sem leik minn ódinn tama, Idunnar á hørpu-víri.

6. O mín qvinna, Idun skæra, eln sem minn nú huga gledur, virtstu innan hjørtun hræra, hita þinnar ástar medur!

7. Fordum var ad fleirum gaman, fljóda skara í æsku minni, en er nú svarin allur saman, Idun kæra, blíðu þinni.

8. Fjølga taka børnin beggja, best er ad vaka því og ydja, frá sér slaka leti leggja, og ljúfann maka um adstod bidja.

9. Vil eg dregin af sé efi, øllum segja frá því þorum: í hóitóm ei eg aflad hefi, únga-greyum kærum vorum.

10. Hvørt þau føgur eru' eda eigi, øll skilfenginn megum telja, þó þau møgur og merglaus deyi, mér þarf enginn skuld á selja.

11. Sídan þreyda þig til vinar, þádi; hér af landsins konum, sverja eid fyrir allar hinar, ætla eg mér á Hreppskilonum.

~~~~~~~~~~

12. Eins og fjalla efst frá tindum, ógurlegur klettur ridar, sem í falli, frárri vindum, foldar vega sundur nidar.
~~~~~~~~~~

13. Með sér skriðu djúpa dregur, dynur í slögum þýngsla megnum, høggur niður og holund vegur, hlíðar føgur brjóstin gégnum;

14. Ur hans brotum eldur støkur, aungvu notast kyrdar staður; smalinn rotast, hjørdin hrøkur, hræðist lotinn ferðamaður.

15. Jørðin grætur, hristist heimur, hrynur um stræti-bjargið þétta, uns það mætir eikum tveimur, sem allar rætur saman flétta;

16. Þessir stansa steininn firna, stýður aðra hvur sem gétur, fótum hans við falli spyrna, ferðir þaðra bjargið letur.

17. Leó þannig støðvar stinnur, stáls í dýum ferða æði, þegar hann í hernum finnur, Hersilíu og Núma bæði.

18. Skjaldmey móti kappa kémur, qveður hann ljótum orðum þanninn; oss þú hóta ei skalt fremur, allra þrjóta verstur glanninn.

19. Þú skalt, færður fyrir skjóma, falla brátt með stæðstu qvølum; að hafa særðann Næsir Nóma, raupa máttu í heljar sølum.

20. Nú tvíhendir hrottann beitta, hjarna strendur mærin yfir; brosti að qvendi kémpan sveitta, kyr hann stendur þó og lifir:

21. Bitur eigi á barðann harða, brand af meyu kappinn tekur, sama dregin sára qvarða, svo að freyu bauga skékur.

22. Eins og snjáljós ódast glædir, eldíng hráa; hinn máttar gildi, Númi, þá fyrir oddinn ædir, og vid brá þeim góda skildi.

23. Høggid kémur á skjøldinn skæra, skada fremur unnid gétur, bríngu nemur Núma ad særa, nadurinn sem hinn sterki hvetur.

24. Besta hrundi blódid nidur, um brjóst er sprundi hlífdi sínu, en hjørsa lund' er lánid stydur, lítil und ei veldur pínu.

25. Sprundi fær hann skjøldinn skæra, skal sig mærin honum verjast; enn fleininn hrærir, fólk ad særa, og fer nú ærilega ad berjast.

26. Eptir leitar Leó fremur, lítt má heita brædin vinnast, mikil sveit á milli kémur, meidar skeyta ei ná ad finnast.

27. Númi hardan Hektor lítur, høggi vard ei gott ad forda, fjallid svardar fleinninn bítur, féll til jardar reynir korda.

28. Þetta Líger lítur brádur, lángan víga-brandinn hristi, en vard ad hníga hjørvi fládur, á heljar stíga', og ondu misti.

29. Hetjan trú sem hrífur rendur, harla freka braut sér rydur, brytjar nú á bádar hendur, blódid lekur af ørmum nidur.

30. Hersilía hans vid sídu, hélt sér nær og vo ad seggjum, Marsar flýa máttar strídu, manns og kæru fyrir eggjum.

31. Svedjur stínga, skeytin skjalla, skolast híngad dreyra elfur, brennan þvíngar Odins alla, umgirdíngin jardar skélfur.

32. Helja ógøfug heimtir recka, hennar krøfum mangi fagnar, í andkøfum daudann drecka, af dreyra høfum fallnir bragnar.

33. Orvar hellast, ógnir hrella, idur vella raudlitadar, sverdin skélla fólk og fella, feigd um velli køstum radar.

34. Skatna trylllist skap óveila, skjómar snilli og ró þó spilli, reykur illi hafid heila, himins milli og jardar fyllir.

35. Í helbláum Blindar lógum, blódugir náir manna stikna, skolast fá ad víga vogum, vøllurinn má um sídir kikna.

36. En þar sem slagur eydir ýtum, andlits fagur í réttan tíma, kémur Dagur á hesti hvítum; hédan vagar blódfull Gríma.

37. Sólin gyllir, sveipud rósum, sæl med snilli jardar móinn; heimur fyllist himna ljósum, húmid villist nidur í sjóinn.

38. Enn þó viltu, sjálig Sunna! salinn stiltan vinda mála, og yfir trylta blódsins brunna, blessud gyltum ljóma strjála?

39. Ásýnd þína umvef skýum, ei hún skíni á þessum degi, svo lík ófrýn í dreyra dýum, dyljast sýnum allra megi.

40. Jord og hædir himna skjálfa, hér þar flæda dreyra pittir; æ, eg hrædist ef þig sjálfa, einhvör skæda pílan hittir!

41. Nú er hnígid Marsa meingi; múgurinn lá á heljar dýnum; stódu tíu á orustu eingi, eptir þá hjá foríngja sínum.

42. Alor sterki enn þá lifir; undan snýr med bragna fáa, styrjar verki; ána yfir, ødla Týrar fíngra snjáa.

43. Leó einn þar eptir stendur, ufla trølli veifar þúngu; brakar fleinn, en brotna rendur; brúna fjøllin sundur sprúngu.

44. Vedur idu dreyra dýa, dreingi feldi kappinn stinni; þikir midur mál ad flýa, medan hann veldur kylfu sinni.

45. Þegninn knái þokast gétur, þó ei nái fetum hrada, þar sem án odda setur, idunni hjá hann nemur stadar.

46. Eptir sækir sveitin Róma, seggnum stæku heggin telja; kylfan slækir flugin skjóma, fyrda sækir þángad helja.

47. Þegar í færi kylfu kémur, og korda hrærir einhvør seggja, kémpan mær þá kappa lemur, af kroptum slær til hlida beggja.

48. Rúmi lýdi vék úr vegi, víga idur gégnum fer hann; fram sér rydur, og eirir eigi, eikarvid í hendi ber hann.

49. Eik með þjósti efldur seggur, ærið lánga af stofni brýtur, fyrir brjóst á Leó leggur, linast strángа kémpan hlýtur.

50. Iðuna sér hann út á hendir, undir sveimar strauma veginn; í kafinu er hann, uns að lendir, afreks beimur hinumegin.

51. Hérnæst snéri heim á vega, hetju maki fjærri ótta, en ecki fer hann ærilega, eins og hrakinn væri á flótta.

52. Eins og svángur úlfur sleginn, einn er sauða haga smaug um, seint og lángan lappar veginn, og lygnir dauða-bólgnum augum.

53. Leó þannig fótinn frána, flytja vann um elfu-backa; Rúmi bannar yfir ána, að elta manninn lyndis fracka.

54. Undir hvíta hjúpi dagsins, hvíldar nýtur Róma þjóðin; Rúmi lítur á leifar slagsins, ljót þar spýtast dreyra flóðin.

55. Hesta og manna limir liggja, líkt sem hrannir blóðs við díki; hvør á annars hlýtur byggja, hnígin granni køldu líki.

56. Storkið blóð á stíflum búka, stillir þjóð, sem heldur lífi; heit nam móða í himin rjúka, hátt frá sóðalegu kífi.

57. Þeir valføllnu blóðs hjá bíngjum, bísnum øllum fram úr skara, eins og fjøll í ógna dýngjum, orustu vøllinn klæddu bara.

58. Dagsins vidur komu klára, kúgadur og máttar linur, raknar vid í rúmi sára, Rómúlur og þúngann stynur.

59. Lætur kalla kóngur híngad, kífs frá bylgjum dóttur ríka, hér med alla hersforíngja, hvørjum fylgir Númi líka.

60. Kóngur þjádi þannig tjáir: því eg vildi ydur finna, géfid rád, sem gódu spáir, gráann hildar leik ad vinna.

61. Leó vefur lidid grandi, líkari trølli er, enn mønnum; mátt hann hefur meir en fjandi, meidsla føllum veldur hrønnum.

62. Eingin særa sverd á skrocki, segg, er gæru ljóna klædist; hvør veit, nær med nýum flocki, nætur ær hann híngad lædist.

63. Eg án fridar minna meina, megnid sára fæ ad bera; nú er ydar rád ad reyna, rømmu fári úr ad skéra.

64. Heldur stansa høfdingjarnir; helst þeir kalla rádin slíngu, ad byggja skans, sem veiti varnir, vøllinn allann þar í kríngum.

65. Hersilía hóf þar greinum: hildar gnýinn reynum snjalla, best ad nýu beitum fleinum, banséett þýin skulu falla.

66. Kóngur segir: ecki er eg, elid skjóma fær ad heya, en aungvanveginn flýa fer eg, fyrr skulu Rómar allir deya.

67. Rúmi grundar málið manna, metur síða úngur frædi; því næst lundur lófa fanna, lofdúng vidur þetta rædir:

68. Ef þú leyfir, ödlíng svinni! úngur maður og reyndur síður, vil eg hreifa meiníng minni, um málið það oss vanda býður.

69. Sjéli talar þjádur þúnga: þína met eg hreysti dáða, hlýða skal eg, hetjan únga, hvað þú gétur freistað ráða.

70. Allskamt héðan (úngur spjallar) eg hefi séða dali þraungva, hníga nedar hyrnum fjalla, við háa qveda storma saungva.

71. Þar einstígur er af klettum, inn sem má í dalinn lalla; því næst víga vollur slétt-ur, vafinn háu brúnum fjalla.

72. Þridjúng vil eg þjódar ráda, þessir fái gaungu hrada, þángað til við brúnir bádar, bjarga háu nemum stada.

73. Vér skulum grjót í dýngjur draga, og dyljast hér; en kóngur Róma, vildi móti Mörsum slaga, med sinn her og beita sljóma.

74. Þegar hildi herdir nýa, og hrottar stinnir lífi sóa, lofdúng skyldi látast flýa, og leita inn í dalinn mjóa.

75. Þángað milli þraungra fjalla, þeir ásjádir munu snúa; herinn illi varast valla, véla ráð er þeim skal búa.

76. Par á móti þeingill tekur; þorri hinna stansar vidur, þegar grjót í hrúgum hrekur, herinn minn af tindum nidur.

77. Peir munu sundrast fyrir steinum, og finna smáa leid ad gridum, fyrir undra stórum steinum, er stöckva þá ad bádum hlidum.

78. Petta veit eg vænst ad rádum, virdar slæist inni kreptir; en vísir breyti, vafinn dádum, vísdóm háum sínum eptir."

79. Rís af bedi Róma gramur, rakna gédi þótti fridur; hann med gledi sómasamur, sveininn tédi þetta vidur:

80. Pú sem Gudir virda ad veita, vitsku slínga utan maka, tólf hundrud af solli sveita, Sabínínga fær ad taka.

81. Far til háu fjalla tinda, fólkid rádum þínum hlýdi; eg mun flána syni synda, sjálfur brádum vekja ad strídi.

82. Pegar kraunum hildar hrída, hjörinn vínir þræla maka, þig ad launum læt eg sídan, lofada mína dóttur taka.



## Attunda Ríma.

Medan vaka víf og menn, vanir tóna glaumi, Sigtýrs qvaka álftir enn, út á Sónar straumi.

2. Fullar héðan fjøðrúm á, flogta í bylgjum vinda, skulu, eða yfir sjá, að Íslandi synda;

3. Setjast spakar axlir á, íngum tróðum seima, syngja, qvaka og segja frá, søgum þjóða og heima.

4. Að þeim hlynna hæglyndar, hvørgi vana týna, þeckja svinnar sæturnar, saungfuglana mína.

5. Fyrr á sævdl sæmileg, saung eg qvæði snótum; þar mig bæði þecktu, og eg, þær að gæða hótum.

6. Mørg varð kát þá orkti eg, Ísahauðurs píka, eptirlát og ástúðleg, eins hin snauða og ríka.

7. Ei skulu hlaupa hundvíser, hvoptar með þeim ræðum, að eg kaupi yðar mér, ástir nú með qvæðum.

8. Héðan fagna ég hendíngar, heim að senda yður, þeirra sagnir svívirtar, svo skal kæfa niður.

9. Munu geymast mínar skrár, en meyar gleyma tjóni, ef eg sveima ellt grár, eitt sinn heim að Fróni.

10. Þegar eg draga hlunna hest, heim sem ratar móður, skulu fagna Skáldi best, skarlatsfata tróður.

11. Gleðst eg við, að vinur sá, er vessa sendist fjøldinn, lætur yður ljóða-skrá, lesa á Vetrar qvøldin.

---

12. Rúmi bálar brúna ljós, Brúðar til að vonum; eik forsjála eisu sjós, eins á móti honum.

13. Brjóstin, lyndið ama án, ástum faðma vörmum; elska, yndi, líf og lán, logaði á beggja hvörmum.

14. Eingin heyrast orðin þar, eyrna ró að svala; saman reyrast sálirnar, samt má hvorug tala.

15. Loksins maður lét frá snót, líða hvarma blóma; alskapaður fyrir fót, fellur hann kóngi Róma.

16. Og hann segir þannig þá: þú minn Lífgjafari, aungvanveginn eg þér má, endurgjalda í svari.

17. Þennann sóma, er sýnir mér, sem má furðu gégna; en minn skal skjómi í blóði ber, baðast þinna vegna.

18. Minn skal hugur vaka við, vilja þinn að stunda, og allur dugur leggja lið, lífs til hinnstu blunda.

19. Róðlynnandi fögur frú, fær mér vanda skérða; óvinnandi eins og þú, er eg í standi að verða.

20. Vinur Sjóla! hætt þá hér, að hreyta eiðum fríum, nú þó sólin seims að þér, sáldi geislum hlýum.

21. Hismið eyðist litla létt, og loginn slokn-
ar bráði, ástin leiðist óskum mett, opt frá
settu ráði.

22. Pegar hún þeim eldi á, efnum spillir
sljótum, askan fúna er eptir þá, ein af hennar
rótum.

23. Nifflúng tjáir Núma við: njótur
snjáa hnúa, eg skal fá þér fylgðar lið, fjøllin
á að snúa.

24. Strax vér híngað þyrpum þjóð, þú
mátt slíngur kalla, til að sýngja sverða ljóð,
Sabínínga alla.

25. Sparið grjótið þeigi, þá, þegnu náið
færi, en eg skal móti Mørsum gá, meinin
há þó særi.

26. Númi qveður þeingil þá, þessu fúss
að gégna; flokkinn meður fjøllin á, fer hann
beggja vegna.

27. Hóf sig fleti hilmir frá; í hlífar færist
búkur; kérru gétur akast á, enn þó væri
sjúkur.

28. Fylkir liði foldu á; fellast niður tjøld-
in; fram með iðu óar þá, allur niðar fjøldin.

29. Leó kémur þá með þjóð, þar um
grund til sjóna; eyrun lemur horna hljóð,
hamrar undir tóna.

30. Hettir gljá við háa hvel, af hyr ó-

ríngum flóa; himinbláar hvassar vel, Hárs eldíngar glóa.

31. Saman hleypur her um leir, og hendir spjóta gaman; eins og steypast straumar tveir, úr stórum fljótum saman.

32. Hjörfar gnata hjálmum á, holdid skata grenna; blóðs ólatir lækir þá, lands um flatir renna.

33. Leó vedur knár í kíf, kylfu medur sína; margra snédur skadi líf, Skøglar vedur hrína.

34. Rómúl finna fýsir hal; fylkir hinn sá kræfi, felast inn í fylkíng skal, fyrsta sinn á æfi.

35. Þegar hrídin hørdust er, og holdar þeyka slaungum, Róma lýdur flýa fer, ad fjalla leitar gaungum.

36. Hinna þjódin hvatar þá, heiptar módi skorin, fødurmódur Magna á, marka blódug sporin.

37. Leó vill med víga skøll, virda trylla alla; þannig stillir øldin øll, inn á milli fjalla.

38. Þegar nú í þreyngslum dals, þorn og klótin braka, Rómar snúa fjødrum fals, fast á móti taka.

39. Old um grund þar ýfir kíf, ákast beitir skjóma, lidast sundur líf og hlíf, í logandum heita Oma.

40. Þá í einu fjöllum frá, firna steinar síga, Marfa beinin mulið fá, margir qveina og hníga.

41. Báðum hlíðum fjalla frá, fleygir lýður grjóti; varnir níðast vopna þá, voða hríð á móti.

42. Eins og mýið Marfa því, meinin lýa feiga; fjalla qvíum innaní, ecki flýa mega.

43. Bjørgin gríðar brúnum frá, brjóstin hlíðar spora; Marsár stríða mæddir þá, meir um síð ei þora.

44. Frá sér unda fleygðu ljá, friðar stund-ar leita; Rómúls lundin þickju=þrá, það ei mundi veita.

45. Leó bítur bræðin heit, í blóðs ónýtu laugum, fram sér brýtur braut um reit, blossi hrýtur augum.

46. Kylfu um herinn harðleikinn, hvassri gérir slike, ecki sjer hann sína menn, svo hann ber þá líka.

47. Þannig heitur hjali brá, hørmúngar á degi: argar geitur, flýið frá, felist hvar sem megið.

48. Deyið allir dáðlauser, dørs við mein í hauga, upp á fjallið flýti' eg mér, að finna steina drauga.

49. Svo einmana hann á hlíð, hraustar

þjáir fætur; flugsteinana í hardri hríd, hrind-
ast frá sér lætur.

50. Eins fer hann og hýdbjørninn, hjartad
gégnum skotinn, banamanninn sækir sinn, síg-
ur = megni þrotinn.

51. Leó brjótast veginn vann, þó velti
bjørgum nidur; frá sér grjótid hendir hann,
hvurgi stansar vidur.

52. Midri er nú hann á hlíd, hladinn
þannig meinum; Númi ver hin vitri lýd, ad
velta á manninn steinum.

53. Hetjan snara hrópa fer: hremsu nídír
fjadra! veginn spara vil eg þér, vor þú bídir
þadra.

54. Númi sídan manni mót, medur grídi
unda; ofan hlídar hvatar fót, hinn vill bída
funda.

55. Hamarbránga einum á, eptir lánga
mædu, meidar spánga mætast þá, og med sér
fánga rædu.

56. Leó seigir: leyfdu mér, leingra veg-
inn herda, vega ei eg vil ad þér, valinn
fleygir sverda.

57. Því ad hetju hugo þinn, hreysti met
eg fremur, lát mig fletja herinn hinn, sem
huganum betur kémur.

58. Stórhugadur, stull er, úngur madur

og fridur, það má ſkaði þykja hér, þig ef naður ſníður.

59. Númi greinir: hvurgi hót, hlífaſt áttu meina, taktu ſlein og kylfuklót, komdu brátt að reyna.

60. Leó kilfu lauſa þá, lagði' á grundu niður, hriſtir ſkilvíngs bálið blá, bjargið ſtundi viður.

61. Neyttu bráðir handa hér; hlítir ráða-góðum, heittir báðir brandarner, bítaſt náðu óðum.

62. Báðir vega og variſt ſá, verjur køldu muldu; hryllilega hrottar á, holum ſkjøldum buldu.

63. Undan hopa hvørugir, hita Þundar løgum; hljóða kopar-hjálmarner, hræddir undan ſløgum.

64. Leó þrifnum brandi brá, biſtiſt lund-in honum; Núma rifnar røndin þá, rétt hjá mundriðonum.

65. Númi lemur ljóma þá, lenſu móti ſveigi; blakið kémur bríngu á, en bítur hót-ið eigi.

66. Lenſan brotnar ljóns á klóm, lagið kéndi ſtríða; hjálpar þrotna handatóm, hetjan ſtendur fríða.

67. Leó ríða verður við, vígur høggið

bráða; Númi biður ei neitt um grið, nam á skrøggirm ráða.

68. Stoðu gat ei nógri ná, njótur sunda ljóma; Leó slatur fellur þá, fjallið stundi tóma;

69. Sá sem hreysti og heillir bar, hulinn gráu stáli, fallins kreisti qverka far, og kím-ur þá að máli:

70. A þér vinna eingin raun, er með hjør-inn góða, en hreysti þinnar læt eg laun, líf og fjør þér bjóða.

71. Leó seigja fallinn fer: Fjølnir rínar mjalla! líf eg feginn þigg af þér, og þjónkun sýni alla.

72. Standa fætur frægir á, faðmast kæti meður, minnast þrætur eingar á, yndið sæta gleður.

73. Þannig eyðist þetta stríð; Pundar breiðu hrínga, ofan leiðast háa hlíð; hjør í skeiðar stínga.



## Níunda Ríma

A eg að halda áfram leingra eða hætta, og milli Grænlands køldu kletta, qvæðin láta niður detta?

2. Nú vill eckért qvenna kyns að qvæðum sækja;

stunda ei eptir stefja bókum, stúlkurnar í selskinns-brókum.

3. Kallmennirnir kunna ecki qvæda málid, ætl' þad sé ecki galid, ad eg leingi qvæda skjalid?

4. Hér á milli hárra fjalla eg hættu tóna, heyri því í huldum steina, hundrad raddir fyrir-eina.

5. Laglega í logni fjøllin ljód fram bera; mig ef fá til forsaungvara, fiús eru þau til endursvara.

6. Vidskiptin mér vid þau falla vel í þocka, medan eg heyri buldra becki, bragar streingir þagna ecki.

7. Ef eg þagna — elfur máské ísum klædist; fjøllonum mínum líka leidist, ljóda-þegar saung-ur eydist.

8. Kjæmist lokfins qvædid heim ad Blakalandi, svo aukid gæti glaum og yndi, Gullhríngs týr og Sørfa lindi.

9. Veit eg, Stúlkur! ydur enn ad ódi dragid, og þá lágt med yckur segid: „enn þá lifir hann Breidfjørd greyid!

10. „Pecktir þú hann? adspyr ein, en ønnur segir: ójá, grant ad øllu tægi, opt var hann í ferdalagi.

11. Sannast var ad sopinn þókti Sigga gód-ur! kalladur var hann qvennamadur, sem kannské hefur verid sladur.

12. Kaulega mátti komast hjá hans qvenna-

ragi; vid þad laus hann var þó eigi, verdi mér aldrei, þad eg segi!

13. Naun var mér og mørgum ad hans miklu dryckju, medan hann var hér á flacki, héldt hann áfram slíku svacki.

14. Mikid hann af munni orkti máta gladur, skémtilegur, en sjaldan reidur, skilid á hann þennann heidur."

15. Píki mér ecki þarfleg vera þessi ræda, eyrum fyrir ad þylja þjódar; þagnid þid heldur, Stúlkur gódar!



## 16. Fjallid nidur fóru menn

og fundu herinn; mestur þorri Marsa barinn, mundi þá og varnar farinn.

17. Ljótt var hér ad litast um í lægdum dala: blódid, mergog hrdann heila, hlýtur ad øsla þjódin veila.

18. Bada menn í blódtjørnunum búka fullum; otudu sér á víga vøllum, valdýngjurnar ofar fjøllum.

19. Ernir sátu upp á þeim med orgi straungu; himininn, af hrafna gangi, hljóda freka, grillir mangi.

20. Númi fer og hædstan hitir hilmir Róma; Leó þángad líka kémur, lofdúngs vinur rædu semur:

21. Hér hef eg fángað hetju þá oss hræddi laungum; veit eg þó í víga saungum, vihnast muni hann af aungum.

22. Eg hefi honum heitið grið því halinn deyða, mætti kalla mikinn skaða, og mér til verstu sneipu hraða.

23. Marsa vil eg mælast til að mildíng alla, náði þá ei náðu falla, nóg má vera gjørt að kalla.

24. Rómúlur hinn ríki þá við reckinn qvedur: verkin þín og þørsin bæði, það er hvørugt lítilræði.

25. Þó skal eg fyrir manndóms ment og mægðir vorar, eitthvað fyrir orð þín géra, og á þá leið úr málum skéra.

26. Uppfrá þessu ánaudugir að øllum kjørum, mér skulu þjóðir Marsa vera, og mínum eptir boðum gera.

27. Bundinn Leó við þinn vagn á veg til Róma, ockur svo að aukist framinn, áfram skal með svipum laminn."

28. Þjóðin geingur þacklát øll að þessum kjørum; bjarga vildu flestir fjøri, frelsinu þó týna gjøri.

29. Leó stendur lotinn þar og litar døckur, aungvu svarar þegninn þeckur, þikir að slíku daufur smeckur.

30. Númi tekur hans í hønd, og hóf ad ræda: þú mátt ferdum þínum ráda, þig á eg sjálfur vald ad náda.

31. Anaudugur aungvum skaltu um æfi vera, heim mátt krýndur heidri fara, hédan kémpan lista suara!

32. Hresíist Leó hjalid vid og hérnæst seigir: þér vil, Númi, þjóna feginn, þad mig fælir aungvan veginn."

33. Þannig Númi: „þó mér vildir þjónkun lána, þeigi vil eg þiggja hana, þræla munt ei tamur vana.

34. Séfur Númi gódann hest med gyltum reida, honum þá og heilla bidur, hetjuna svo mynnist vidur.

35. Skeinkir Leó skjøldinn sinn í skadabætur, frægstum Týri fíngra grjóta, fyrir þann, er nádi brjóta.

36. Fadmast svo med føgrum ordum fyrdar bádir; sínar heldur Leó leidir, luku hvør þá ødrum beidir.

37. Rómúlur, sem horfdi og hlýddi á háttu slíka, aungvanveiginn lét sér líka, lasti nam þó ecki slíka.

38. Heim vill sídan herinn Róma hvatur draga, rída menn um heidi og haga, hardtnær bædi nótt og daga.

39. Vagn á undan fylkíng fer með fegurð góða, inní honum hafa nædi, Hersilía og Rúmi bædi.

40. Vill nú eingin óska sér af úngum sveinum, sem að ásta unna konum, að eiga sessinn líkan honum?

41. Það mun ecki leiðinlegt, að líkum, vera, fögur þegar faðmar kjæra, að falla í hennar arma væra.

42. Þegar eg tók í hrunda hönd, með hægu glíngri, fanst mér þegar eg var ýngri, eldur loga' á hvörjum fíngri.

43. Þegar eg lagði hægast hönd um háls á svanna, allar gégnum æðar renna, ástin fanst mér þá, og brenna.

44. Þegar mátti eg falla í faðm á fljóði úngu, vissi eg eckért um mig leingur; aðrir skynja þá hvað gengur.

45. Af öllu þessu er mér ljóst, að úngur Rúmi, hefur ei vitað hót af ama; um hana mætti trúa sama.

46. Hvað þau bædi þeinktu þá og þuldu bædi, það kémst ecki í þetta qvædi, þó það á mínu lísi stædi.

47. Herinn kémur heim í Róm með heppni flesta, sigur-hátíð halda mesta, við hljóða glaum og offur Presta.

48. Tasi kóngur kémur ad fagna kjærum Núma; eigi veit hans ástar drauma, edla hirdir ljóma strauma.

49. Rómúlur nam hilmir hljóds og hal-inn beida; hérnæst fer svo hátt ad ræda, hædsta geymir tignar klæda:

50. „Núma einum hlýdir halda hátíd „þessa, hann hefur unnid orustu hvassa, og „ósigrandi brynju Pjassa.

51. „Öllum læt eg opinbert, því ei má leyna, „hita géf eg hlyni Rína, Hersilíu dóttur „mína.

52. „Á morgun bádum vil eg veita vígslu „presta; veitslu skal og virdíng mesta, vora „kappa þá ei bresta.

53. „Í alla nótt skal faungin flest og fædu „laga; þannig vil eg hér til haga, hófid „standi tíu daga.

54. „Því næst vitid: þegar dagar þessir „lída, allir drøgum út ad stríða, ecki tjáir „heima ad bída."

55. Tasi kóngur hefur heyrdar hilmis rædur; bliknar hann í bragdi vidur, brýrnar heldur sígu nidur.

56. Hljóds sér líka hógværlega hilmir bid-ur; vekur þá vid Rómúl rædur, rétt eins og þeir væru brædur:

57. „Mikla hétja, minn jafníngi ad makt „og audi!' eg hefi þig um eitt ad beida, „ecki mátt þú hjá þér leida.

58. „Heima sit nú árid eitt med allan her= „inn; øll eru ríkis faung vor farin, en fá= „tæklínga nógur skarinn.

59. „Allt hvad bænda orkusemi á ári greid= „ir, herinn þinn í einu eydir, en ockur heima „skortur neydir.

60. „Silfur vort og audur er í yckar klæd= „um; ydur horfir eins til nauda; ef ockur „látid húngur=dauda.

61. „Því eg vil, ad þjód á ári þessu øllu, „aungvan svo eg undan felli, akra ad sái og „rækti velli."

62. Rómúlur med svørtum svip og síd= um brúnum, aungvu svarar ordi honum, og svo géck af mannfundonum.

63. Tasi Núma tekur hønd og tala nádi: „óska jeg þér alls hins góda, eins og mínar „skyldur bjóda.

64. „Ad vísu ecki vænti'eg þú værir gipt= „ur, Hersilíu heillum skaptur, híngad þeg= „ar kæmir aptur.

65. „Hlaut eg ei þá heppni þinn ad heita „fadir; enn eg vil samt æ, sem bródur, elska „þig af hjarta gódur."

66. Við rœðu þessa roðna Númarodul-kinnar; en sjóli gèck frá solli manna, sinna heim til borgar ranna.

67. Númi líka heldur heim í huga sjúkur, eins er honum og ástar qveikur, ætli sinn að gjørast veikur.

68. Heim í ranni honum fagnar Hersilía, aptur hennar augað hlýa, ástar qveikir blossa nýa.

69. Þegar hann hefur hrestann sig hjá hýru sprundi, Egeríu út að lundi, er þá mælt að Númi skundi.

70. Þegjandi í þaunkum fer hann þessar leiðir, uns hann heyrir einhvørstaðar, óp og vein; hann þángað hraðar.

71. Og hvað sèr hann? eckért nema ógn og skaða! undir sverðum illra kauða, ødlíng Tasa seldan dauða.

72. Unnið hafa þrælar þeir á þeingli svinna, ramebldir af reiði sinni, Rómúlar af lífvaktinni.

73. Ut hefur geingið ødlíngurinn ángur-væri; hinir boð síns herra gèra, hilmir myrða og sárum skèra.

74. Illa Núma verður við, hann vigur skèkur, gègnum fyrsta fantinn rekur, fólið versta Helja tekur.

75. Fantar hinir forða sér, en fleina við- ur, sig hjá kóngi setur niður, sára vildi stöðva iður.

76. Hilmir biður: „hætta þessu, hetjan „góða, sjóinn æða að sefa rauða, sárin mørg „eg hef til dauða.

77. „Sndomum vil eg gjalda lof og „gleyma meinum, að eg fæ í ørmum þínum, „anda þeim að skila mínum.

78. „Dóttur mínni bið eg blítt þú bjarga „vildir, henni ecki munu mildir, morðíng- „jarnir bræði fyldir."

79. Segir hinn: „eg sver við þína sál ó- „feiga! þar til dagar dvína meiga, dóttur „þína besta að eiga.

80. „Mér ei sómir morðíngjum að mæg- „jast þínum, Tasíu skal eg elska eina, ástum hinnar gleyma og leyna."

81. Ydlíng faðmar úngan mann með ástar hendi, tala vill, en — í því anda, uppgaf best- ur stýrir landa.

82. Hilmirs lík á herðar tekur hetjan fróma, ber hann heim til borgar Róma, býr nú um með tign og sóma.



# Tíunda Ríma.

Standið væna hnignar hér, harðar tíðir gróa, Landið græna orpið er, undir hríðir snjóa.

2. Víðir læsa ísar unu, íllar skorður forma, stríðir hvæsa móðum munu, máttar norðurstorma.

3. Skjálfa megin flúin frið, fjöllin klæða nakin; álfa greyin veina við, vistum gæða hrakin.

4. Fjöllin dynja þjökuð, því, þúngir vindar skaka; Tröllin stynja ærðu í, inni myndar-laka.

5. Líka óðum mýa mér, máttar storma-falla; slíka góðum háttum hér, hlítir forma valla.

6. Væri gaman Beslubyr, bjóða sendir hrínga, bæri saman fundi fyr, fjörið endir rínga.

7. Pínum gæðum Iðun ein, andinn treysti ljóða! brýnum qvæðum mýki mein, magni hreysti góða!

8. Varða gruni miður má, mærðar vessum sóa, harða munir fæðíng fá, fyrir þessum króga.

9. Trega þráu mýkir mein, máli þrautir lin-ar, þegar fáum setja svein, sóma-skauti vinar!

10. Viðri rýra sendíng sá, svitrir dýru bauga, hirða skíra mælsku má, meður hýru auga.

11. Lundar-bráður Rími nú, (neydir minnur pína) skundar gáður breiða brú, Brúði finnur sína.

12. Fágna tekur hraustum hal, Hersilía rjóða, sagna vekur traustur tal, Týrinn dýa glóða:

13. „Hvíta Gérdur falda! fljótt, fái hønd-„in trúna, slíta verdur ockar ótt, ástar bønd-„in núna.

14. „Myrtur þínum fødur frá, fjori Tasi „slepti; firtur sýnum, elli á, árum slasið „hrepti."

15. Heiðin djarfa bauga brá, bragði lánga tíma, reiðin farfa þróar þá, þrútnar vánga gríma.

16. Manninn vefur íllsku ør, ama hótum þráum; þannig gefur síðan svør, svipuð snót-um fláum:

17. „Getur fáu muna mein, maktar „blóðið fróma; metur smáu svoddan svein, „Siklíngs jóðið Róma.

18. „Meðan unda látum ljá, leyna hund-„inn glettum, héðan skunda fljóði frá, fant-„ur bundinn prettum."

19. Rúma bítur þánka þrá; þrekinn meið-ur spánga, rúma hlýtur Fofnirs frá, Freyu reiður gánga.

20. Vinnur svinnar báðir dýr; dúfu flóða eima, finnur linna túna Týr, Tasíu góða heima.

21. Vefur nauða þjakið þétt, þrúði bauga sárum, hefur dauða föðurs frétt, fleytir auga tárum.

22. Niður dreingur svinnur setst, svörin mundi þýða: „yður geingur meina mest, móti, „sprundið fríða.

23. „Frétta skyldi þýðust það, þrúður „tígin veiga: netta Hildi bauga bað, buðlúng „hníginn eiga.

24. Vörin túna grafníngs góð, giptumálið stýður; kjöri núna festa fljóð, föðurs bálið viður.

25. Kysti manninn, blíðkast brá, beitti svörum dáða, tvisti svanninn: milding má, meyar kjörum ráða.

26. Glóðir laga þegnar þá, þeingil brenna liðinn, þjóðir draga ekru á, eldar grenna viðinn.

27. Stránga freyðir loga lá, líkið brendi niður; þángað leiðir nistis Ná, Númi heiði viður.

28. Bálið skyldi vígja við, vigra spennir hreina; tálið fylgði svika síð, svanninn kénnir meina.

29. Mæða svellur ráða rýr, reckar unda miður, klæða fellur dúfa dýr, dáin grundu viður.

30. Heitur þrúnginn núna nár, neydir kannar traudur; eiturstúnginn biltist blár, búkur svanna daudur.

31. Búid svanna hefur hel, Hersilía leida; snúid manna þrútnar þel, þyckju drýgja greida.

32. Rúma þvingun brjóstid ber; brandar stínga sídur; Rúma kríngum safnar sér, Sabínínga lýdur.

33. Hljódum medur bruna brát, borgar undir múra; ódum vedur Grana grátt, gétur lundir stúra.

34. Róma lætur sjóli senn, safna þéttum skara; stjóma þrætur aukast enn, álku klettum fara.

35. Rennir stæraſt klóta kaſt, kappa skæda vekur, tvennir ærast flockar fast, flóinn æda lekur.

36. Fyrstur rídur Rúmi nær, nístir lýdir deya, byſtur snídur þjódir þær, þyrstur strídid heya.

37. Gotna fálmar hrausta hönd, holdid skálmar stínga, brotna hjálmar, rifnar rönd, rámir máumar sýngja.

38. Kundur sjóla þrekinn þar, þrúiun harma mædi, sundur fóla skæda skar, skoladi arma blódi.

39. Frekur Grérinn sorfa sá, sækir klidinn skjóma, rekur herinn ekru á, undir hlidin Róma.

40. Stinni skadinn þjáir þá, þó ad furdi vidur; inn' í stadinn slúid fá, fella hurdir nidur.

41. Klidinn spjóta efla enn, axir slíngar bylja; hlidin brjóta sundur senn, Sabínínga vilja.

42. Þetta heyra ríkur réd, Róma brádi gramur; þretta meira gramdist géd, géfur rádid tamur.

43. Hrinda skipar ýta á, odlíng steinum hordu; linda svipar þundum þá, þjakast meinum gjordu.

44. Skaka voga eggjar enn, ýmsir dørva henda, taka boga mæddir menn, múrum ørfar senda.

45. Múrinn setur odlíng á, ýta slíngar qvinnur; skúrin gétur þjódin þá, þornum stínga minnur.

46. Kasta sverdum þúngu því, þambar knáu meidar; hasta ferdum ofan í, eggjar bláu skeidar.

47. Bodinn qvenda hyggju hyl, herdir nidinn qvala; bodin senda tiggja til, trygda gridin fala.

48. Gramur segja fólskur fær, (fyrri týn-ast vinir) framur deya Númi nær, náðum krýnast hinir.

49. Vildi sprækur náðum ná, neista ráður hvera, skyldi rækur fróni frá, friðlaus, smáð-ur vera.

50. Fleygir rita sínum sá, sinni ráðum þótta; eigi líta milding má, magni bráð-um flótta.

51. Vega dragna Númi nær, notist frest-ur tæpur; þegar bragna fundi fær, falli gést-ur dræpur.

52. Þjóðin reiðist, svíður sút, sætir neyð-um þetta; glóðin breiðist Óðins út, aptur skeiðum fletta.

53. Víða hljóðin æsast ær, eru skekin sverðin; fríða þjóðin neita nær, Númi rek-inn verði.

54. Ljóma iðu svíðrir sá, sviptur friði blíða, fróma niður' þaggar þá; þjóðir biður hlýða.

55. „Klíðinn óða heptið hér, hjørnum „fleygið stinna; friðinn góða þiggið þér, þeg-„ar meigið finna.

56. „Leingi skyldi hyggjan hrein, (hlýðir „þegna meingi), enginn vildi maður mein, „minna vegna feingi.

57. „Skérda blídir harminn hinn, hernum „lista búna; ferda tídir muna minn, mettan vista núna.

58. Ydur beidi Gudin gód, geymi, bræd-ur dýrir! fridur leidi þægur þjód, þetta mædur rýrir.

59. Geingur lýdur frægum frá, feinginn qvídi veldur; dreingur rídur ekru á, eingu strídi hreldur.

60. Lindar glansa fyrir freyr, foldin sýn-ist ljóma, tindar dansa, lídur leir, landid týnist Róma.



# Ellefta Ríma

Margur stríd fyrir brúdi ber, bidlana þær géta ert; sumir hýdast hryggbrotner, heimsins milli enda þvert.

2. Vid skulum eigi gráta grand, úr greipum þó ad sleppi mey; adrir seigja ekta stand, einnig stundum vera grey.

3. Sumir hafa búid best, bónords sætu dög-um á; þá er af og á um flest, allt hid sama bád-um hjá.

4. Vid þá glíngrar sætu sveinn, (svona geng-ur fyrst í brád) hennar fíngurendi einn, er þá stædsta teikn um nád.

5. En ef nærist ástin þar, og hún kæran lætur mann, uppá færist fingurnar, faðmar mærin síðast hann.

6. Lucku standið leingi og vel, í lífi og dauða vara á, eins og fjandan hreint í hel, hugsi menn að lifa þá.

7. Núna þjóu hvørt annars er, yrkja og halda saungva sína, á qvøldin tóna temja sér, svo Túnglið kalda vikna má.

8 Nóg er prýði um svæði og sjó, sérhvør þúfan liljur ber, ísa þýðir og allann snjó, ástin ljúfa hvar sem fer.

9. Aungvar særa þarfir þá, þetta væna hjóna val, vatni nærra einu á, og ást í grænum haga skal.

10. Þegar herða hjónabønd, helgir sálar smalar á, staudum skérdast viija vønd, vina málin beggja þá.

11. Þá má fá sér hús og hey, hnybbast á við børnin sína, vatnið bláa og ástin ei, að øllu tjáir að notist þá.

12. Því ei skiptu skapi um mey, skaða lakan fordast sess! Hvørt þú giptist eða ei, iðrun taka kanntu þess.

13. Rétt einmana Rúmi nú, nockuð mætur hvatar før, yfir Grana gamla frú, gángga lætur søðul-knør.

14. Leingi fer svo fram um reit, fordast neydir hetjan traust, aungva sèr hann veigi veit, vollinn skeidar þánkalaust.

15. Hugan særir þyckja þrá, þegninn kæri ljóns um ver, vidar nærist eggjum á, adra fær ei kosti sér.

16. Pad var qveldi einu á, ad hann lítinn hellir fann, lagdist heldur þreyttur þá, þar og nýta hælid vann.

17. Eitthvad hrærist inni, því, otull finnur sofnadann, ljóna gæru liggja í, Leó finn og vekur hann.

18. Hinn sem blundi hrindir þar, hitta besta vininn fær; nú vard fundur fagnadar, fadmar gestinn Leó kær.

19. Frétta bádir bidja sér, og bjarga dýnu hvílast á, Rúmi tjádi, eins og er, allt af sínum ferdum þá.

20. Öllu strídi og flúta frá, fleina beitir segja réd, Leó hlýdir leingi á, en lesarinn veit hvad hér er skéd.

21. Rúmi bidur segi sér, sína líka æfi hinn; þad skal ydur þulid hér, þar ad víkur frá = sögnin.

22. „Í Marsa landi eg alinn er, út í dølum skógar, hvar, adhlynnandi módir mér, mikid fel af elli var.

23. Ockar vóru fátæk faung, fødur minn eg aldrei sá; kosi mjór oss þénti í þrauug, þétt sem inni í dølum lá.

24. Sauda rýra hefdum hjørd, hirda þá eg laungum má, fram um mýrar, fjøll og jørd, fédur ljá og sitja hjá.

25. Prótt eg gódan þóktist fá, þannig fram um tíma géck; utan módur mína þá, mann eg aungvan litid féck.

26. Mín var idja um þá bid, opt ad laumast saudum-frá, bjørgum rydja, brjóta vid, og bláum straumi synda á.

27. Ljón og birni' eg bardi þrátt, bana feingu þeir af mér; úngur firna mikinn mátt, med því geingi féck eg hér.

28. Pad var degi einum á, elfu bøckum nærri þar; eg Skjaldmey í sødli sá, sem ó-klockur fákur bar.

29. Vartar frid, í bragdi bjørt, bjarga kannar hála leid,, eisu vídis Eya hjørt, elta vann og mikinn reid.

30. Misti fóta fákur þá, ferill naumur honum var; mær í fljótid falla má, firna straumur hana bar.

31. Eg án bidar, sem þad-sá, í svala idu fleygdi mér, fíngra skridu Fold ad ná, fram sem rydur vatna hver.

32. Lokſins mey eg nam að ná, Níl þó fleygi ſtraumi blá, loga Freyu ſlóa þá, fékk eg dregið landið á.

33. Öll tilfinníng flúin var, í føllum ſiinnu vatna þar; eg til minnar móður bar, Menju ſvinna gullreimar.

34. Henni képtumſt hjúkra við; heilſu tepta bauga Sná, daginn eptir ſjør og frið, fékk, og ſlepti rúmi þá.

35. Blítt eg horfði augum að, orma dýnu fríðri Nó, enn ekki þorði að þenkja, hvað, þá í mínum huga bjó.

36. Þakkar ſilgju Sólin mér; ſíðan móður qvedja vann, beiddi ſylgja á brautu ſér, bleſſuð góða ſtúlkan mann.

37. Háum kletti einum á (eg það rétt í huga ber) niður ſettiſt ſætan þá, og ſoddan fréttir þuldi mér:

38. „Leingi eg minnaſt mun á þig, mér „ſem hlynna náðir dátt; hér ſkalt finna á „morgun mig, mun eg vinna að launa ſmátt."

39. Frá mér vendi frúin ſkreytt; fundum lýkur beggja þar; innra kendi eg eitthvað heitt, aldrei ſlíkur forðum var.

40. Daginn eptir árla þá, út að róla mig eg bar; ſætur keptuſt klettinn á, klæða Sólin ljómar þar.

41. Gaf mér prjóna Gerdur prúd, med gæzku tónum, brúna skær, þessa ljóna holla húd; hún mér þjóna sídan fær.

42. Kom og fína qvendid med, kylfu mína og þennan hjör; tók ad brýna gott med géd, gullhrings dýna þessi svör:

43. „Þinn eg smátt í þetta finn, þánka „hressa gjöfum kann; en vopnin átti afi „minn, Ackilles, sem Hektor vann.

44. „Njóttu best og verdu fast, brandinn „góda og kylfu þá; spjóta sletta fordast „kast, fatid góda húdar má."

45. Packir nettar þá eg qvad, þóktist sett-ur gæfu stól; hérnæst frétti heiti ad, hand-ar kletta Morgun-sól.

46. Aptur ræda fögur fer: „fyrir þig eg „læt uppskátt; rósu klæda, kæra þér, Kam-„illu þú nefna mátt."

47. Féll eg þá um háls á hrund; hún var ecki móti því; þannig láum litla stund, léttum fadma brögdum í.

48. Þér eg sannast segi nú: svæfdur trega gustur var; hvört vid annad ást og trú, inni-lega bundum þar.

49. Feingum lag á fundi sett; fadma öl-ust brögdin neyt: alla daga í ran klett, klæda Sólin vermdi heit.

50. Lánid valt í lífi er; lídid þegar árid var, hvarf hún allt í einu mér; ærinn trega því eg bar.

51. Veit eg, móti vilja sín, (vina banna fundi mein) hefur snótin mæta mín, meigad annan þýdast svein.

52. Nockrir segja úr Sikiley, sikling leidur hafi frú, rænt, og dregid fram á fley; fast mig neydir hugsun sú.

53. Skömmu sídar sørva Hlín, sødd af árum mørgum þó, deydi blída módir mín; um moldir sár eg hennar bjó.

54. Vída flacka fór eg þá, fyltur trega, um landa veg; úngum spracka aptur ná, innilega girntist eg.

55. Þá eg mætti Marsa her, med þeim slætti sverda vann, fári sætti, og fyrir þér, féll, ágætti hreysti-mann!

56. Myrda vildu Marsar þá, mig, því Hildi tapa réd; þeim med snild eg slúdi frá, og fæ hér milda vininn sjed.

57. Aldrei linna eg ætla mér, Oms á qvinnu þreyta ról, uns eg finn, þá blóma ber, bestu linna jardar Sól.

58. Ad finna sóda í Sikiley, síst ofbjóda læt eg mér; veit eg gódur er hann ei, ólma þjód á kaudinn sér.

59. Mætti eg fley um flóðið blá, fylkirs eyar stýra til, skyldi eg mey frá skálki ná, og Skøglar heya manndráps byl.

60. Númi géldur þakkir þá, Þundar eldibranda Týr; svo að qveldi sofna ná; sinnið hrelda blundinn flýr.



## Tólfta Ríma.

Kom þú, Braga brúðin góð, í blóma himinklæða! heilla dagar hressi þjóð! harpan glymur qvæða.

2. Minna streingja hljómur hreinn, hugar þreyngíng reyri; qveð eg leingi, qveð eg einn, qveður einginn fleiri.

3. Skinnaklæða hrundir hér (hverfur gæða efni) hljóða og æða undan mér, ef eg qvæðin nefni.

4. Heima forðum Fróni á, friðar góðu stundu, bragar orðum betur hjá, blessuð fljóðin undu.

5. Hugar leyna máir mátt: Menju steina glóa, man eg eina og þrái þrátt; þan ei meinin gróa.

6. Þér eg gleymi aldrei, ó, eyar bráar dýna! Því tveggja heima heill og ró, hjá þér sá eg mína.

7. Pína ást eg aldrei þó, með orðum gjörði fala; í huga sástu hvað mér bjó, hvurngt þurfti að tala.

8. Þig til handa þá eg sá, þegni øðrum gáúga; flúði eg landið frá þér þá, flúði eg gøtu lánga.

9. Flúði eg norður hálfu heims, og heiminn svo að kalla; mér þú, skorðin glampa geims, gøtu fylgir alla.

10. Veitstu að nú í vetur hér, vildir bætur kénna: dillaðir þú í draumi mér, drósin nætur þrennar.

11. Eg þegjandi heingdi haus, hræddist trúa ønðin: hvört mun anðinn ljúfi laus, líkams nú við bøndin?

12. Og svo híngað hvarfla sér, hægt til drauma bóta, yfir, kríng og innra í mér, á lopt-straumum fljóta.

13. Eða mundir, linda Lín, lífs á gøtu þinni, þeinkja stundum mjúkt til mín, manns í út-legðinni.

14. Þegar þú heyrir, heillin mín, hanann brúna gala, ljáðu eyru þessu þín! um þig eg núna tala.



## 15. Dagsins runnu djásnin

góð, dýr um hallir vinda; morgunsunnu blessað blóð, blæddi um fjalla tinda.

16. Ljósið fæðist, dimman dvín, dafnar næðið fróma, loptið gleðist, láin skín, landið klæðist blóma.

17. Dýrinn víða vakna fá, varpa hýði nætur, grænar hlíðar glóir á, grösin skríða á fætur.

18. Hreiðrum gánga fuglar frá, flögta um dránga bjarga, sólar vánga sýngja hjá, sálma lánga og marga.

19. Á allar lundir laga klið, lopts í bláu rúmi; létta blundi lætin við, Leó þá og Rúmi.

20. Blundur nætur nægir sá, njóta mætu vinir; skunda fætur frægir á, fljóta glætu hlynir.

21. Leó hraður hefur þá, hjólum snúið svara: „heilla maður, hermdu frá, hvört á „nú að fara."

22. Rúmi slur andsvör þá: „ills er vol „að kalla; ég vil felast, ef að má, innst í „dölum fjalla.

23. „Birni hér og ljóna lið, lands um „slóðir harðar, betra er að búa við, en „blindar þjóðir jarðar.

24. „Slíkir fæla friðinn há, og flesta „sælu níða; leitum þræla liði frá." Leó mælir síðann:

25. „Hjá þér þreya, vænst er víst, vod-
„ins treyu nídir! en Sikiley mig finna
„fyrst, og frelsa meyu tídir."

26. Rúmi svara frægum fer, Fundi linna
blída: „eg skal fara þá med þér, í þetta
„sinn og strída.

27. „Viljir hrada þú um það, þóptu
„nadi ad búa, kalla eg gladur kísi ad, Kú-
„res-stadar búa.

28. „Fødur mínum þessi þjód, þénti geir
„ófeigá; þegar gína hjørva hljód, hylla
„þeir oss meiga.

29. „Þó ad gædin fridar fá, fast minn
„þrái hugur, ei mig hrædir hlífa þrá, hlíta
„náir dugur."

30. Leó kjærum þackar þá, þvita meidir
hnúa, vill svo færa leid ad lá, lángar skeid-
ir búa.

31. Skilja dýrir børvar brátt, blóma lýra
valla; neitt ei rýrir nægan mátt, Rúmi
snýr til fjalla.

32. Leó fer, þar vinsæll var, veg med
strandar hrønnum, hundrad kneri þiggur þar,
þegn ad vandamønnum.

33. Búsbur núna búa vann; breidast
húna vodir, kadla snúna herdir hann, hreifa
brúnum gnodir.

34. Númi frémur fjalla sal, frá eg tóm-
an héldi, lítur blóma búinn dal, beitir skjóma
að qveldi.

35. Grundin vidur blásir blíð, beslum
þegni valin; áin nidar ofan hlíð, allt í
gégnum dalinn.

36. Væn í rodum varin há, vinda glod
af rænum, leika blodin blómstra smá; blik-
ar í tredum grænum.

37. Hetjan gérir hvata sér, helst um víd-
ar grundir, og nú sjer hvar flockur fer,
fótum hlídar undir.

38. Sex á undan (sjer þad hann) svart-
ir skunda dreingir, draga bundinn med sér
mann, meina stund er þreyngir.

39. Fjórir sveinar eptir á, akur-reinir
skunda, bera eina góda Gná, gyltu steina
munda.

40. Hljóda bædi, er bondinn þjá; baga.
slundir vara; Númi rædur þángad þá, þeir
hvar undan fara.

41. Sigur-skjóma bláum brá, birtu
Pundur lóna; vigur hljóma þráir þá, præl-
ar undir tóna.

42. Númi fyrsta feldi mann, og fleini
gegnum keyrdi; annan risti endlángan, æda
regnid dreyrdi.

43. Hinir fjórir þángað þá, þróttar stórir fara; hrínga þórum átta á, einn óskjór að svara.

44. Hríng um knáa hetju slá, Hroptar gráu skjóma; loga þá við loptið blá, ljósin háu Óma.

45. Kémpan hrelda høggin gaf, hart, sem eldíng flýgi; hausinn skéldi einum af, er hann seldur vígi.

46. Oðrum bítur fótinn frá, frægdar-nýt-um geiri; hríngínn brýtur hraustur þá, helst þó lítið eiri.

47. Blóðið freýðir þræla þá; þjóðir neyð-ir bagi; sóðar meiðast eggjum á, í Oðins reiðarslagi.

48. Flakir hráa holdið þá; hirðir nái storin; klæðum gráu Grana á, grenjaði blái hjørinn.

49. Niður hrundið frægur fær, fólsku hundum øllum; svíðris sprundið nøtra nær, náhljóð drundi í fjøllum.

50. Seggur móði sárin bar, og serkinn Oðins rifinn; einn hann stóð á ekru þar, allur blóði drifinn.

51. Leýsti fánga báða brátt, batnar sked-ur tregi; þeim að gánga hetjan mátt, hefur með þeim eigi.

52. Leidir glada hønd á hal, Heidin vadal-roda, hú-aldradur hina skal, hennar fadir stoda.

53. Benjar kynja mæda mann, af mækirs nauda bladi; blódid dynja volga vann, vegin raudlitadi.

54. Medur beim, er meinin þjá, (myrkt um geim þá verdur), komizt heim í kofa fá, kall og seima Gerdur.

55. Sætan rjóda sárin þvær, sólar reynirs flóda; stodvad blód og sárid fær, fíngra steina tróda.

56. Meidina reidir bjørkin bed, med búníng vøndum manni, klædum breidir mætan med, mjúkum høndum svanni.

57. Aldinn madur, fram nú fer, fús á góda sidi: berhøfdadur bar inn kér; brann þar glód á vidi.

58. Lestur frómur yfir ól, og elda glædir slíka; brunna ljóma sýngur sól, sérleg qvædi líka.

59. **Númi** heyrir hvad framber, hrund í brýnum rædum, gullhlads Eir þá gøfga fer, gudi sína i qvædum:

60. Alskaparann um hún qvad, (**Orómuz** hann kallar), einn sem varir, uns úr stad, allir heimar falla.

61. Mann, sem alla elskar menn, og þá skapta hefur, lífs gjørvallri líkíng enn, lán og krapta géfur.

62. Arimantes um hún qvad, er atvik góð nam fæla; þessum ant er eitt um það, ílls til þjóð að tæla.

63. Mærin saung á marga lund, mælsku grundað letur; Númi aungva aðra stund, una mundi betur.

64. Eptir vænan saungva sið, er sansa gerir hvetja, eldinn-bænast bæði við, og burtu kerið setja.

65. Kallinn spakur nær að ná, náðum, lú-inn meina; Núma vakir hæverst hjá, hand-ar Brúin steina.

66. Boðið nóg var þýðum þá, Pundi ljósa hvera: aldrei flóa funa sá, fegri rósu vera.

67. Mestan fljóðið blóma bar, á brúna stiltum sólum; sinnið góða og sálin þar, sátu á gyltum stólum.

68. Kinna freku blómstur bar, brúður nýt ei níður: rauðu léku liljurnar, liti hvíta viður.

69. Falda Hlíð að flestum má, fríðleik gjøra mikla; hjartans blíðu brosin á, blómst-ur-vørum sprikla.

70. Svona er rósin sumar tíd, sólar þveg=in glédum; yndis ljósin blessud, blíd, af blómstrum fleygir rjédum;

71. Bléma=staungum blødin á, blika um landa haga; þeirra vaungum vindar hjá, voga ei anda draga;

72. Jurtin fréma fyllir trød, flestra yndi þarna, sýgur ljémann sólar glød, og sætan lindar kjarna.

73. Þó er spaka mærin mjúk, málud ei, sem hlýdir; augun vaka ástar=sjúk, yfir Freyu prýdi.

74. Rúmi beitir augum á, Ekru mund=ar fjalla; O, eg veit ad henni hjá, heppn=ast blundur valla.



# Þrettánda Ríma.

Þegar hrídir harma géra, hugàn níða, þykja tídir þúngar vera þeim, er líða.

2. Á nær bjátar eymdin smáda, og eitthvad hallast, sumir láta hugann hrjáda og hendur fallast.

3. Kløgun valda, og þyckju=þráan þvínga muna, og margfalda eina smáa ólúckuna.

4. Hinir létta hørdu lyndi, og hreysti neyta, forsmá þetta, og ad yndi ødru leita.

5. Slíkir finna vilja valla vanda øllum, sigra og vinna ánaud alla, er vér kollum.

6. Atvik sa þó ockar lyndi ýmist móti, nóg er þá af ødru yndi í ýmsu hóti.

7. Bresti geingi eda aud hjá ýllum grønnum, finnum leingi bót og braud med betri mønnum.

8. Ef ad vara atlot qvenna ei sem skyldi, hún má fara; finnast hennar fleiri gildi.

9. Um forløg skrafa ei hlítir hørd, né huga snúa, bædi á hafi, himni og jørdu heillir búa.

10. Vitur, snotur er sá einn og aldrei mædinn, sem þeckir, notar, hjarta hreinn, í heimi gædin.

11. Eg hefi lítid lund ad styrkja lucku-þunni; þad er skrítid, eg er ad yrkja í einsetunni.

12. Hér vid eiri eins og þætti ecki skérda; ó, ad fleirum ad því mætti yndi verda.

13. Skyggi nockur ømun á hins Edla gledi, Siggi locki leida frá úr ljúfu gedi.



14. Rúmi stardi hrærdur hljótt á hrundu unga; hjartad bardist brátt og ótt í brjósti þunga.

15. Eingin girnd nú sálu særdi sorgar fría, sem í fyrnd þá hjartad hrærdi Hersilía.

16. Unun fann í hjarta hann, sem hrindir banni, vakti svanninn virdíng sanna vofkum manni.

17. Fer ad leita frétta hann, sem fýsir heyra; spyr ad heiti svinnan svanna, og svo um fleira.

18. Svars hún hastar: „Anaís mig øld kalladi; Sóróaster sóma-vís, minn sá er fadir.

19. „Hann hefur kénnda himinfrædi heims-
„ins búum, hans, er sendir sálum gædi,
„svo vér trúum;

20. „Hans, er gætir alls, sem er á unn'
„og veldi, hvørs bílæti sálin sjer í sólu
„og eldi.

21. „Fødur mínum fróda vildu fáir trúa;
„hann úr pínum hvørgi mildu hlaut ad
„flúa.

22. „Hér høfum búid átján ár í eydi-
„dølum; loksins þú oss léttir fár, og leyst-
„ir qvølum.

23. „Þú komst híngad, þakinn snildum,
„þá til máta, mig ræníngjar ragir vildu
„ræntа láta.

24. „Medur tárum manni svinna eg
„mætti gegna: þú ber sár og þjáníng minna
„þarfa vegna."

25. Rúmi tjádi greipar grjóta Gérdi vidur: „eg mun brádum heilsu hljóta í hond- „um ydur."

26. Eptir mánud hálfann hann med holl- ar bætur, krýndur láni, klædast vann, og kom á fætur.

27. Fleygir branda fødur vidur fer ad ræda; fér til handa blídrar bidur Brúar klæda.

28. Talar aldinn: ef ei skildi á um trúna, á þitt vald, minn vinur mildi, eg veitti frúna.

29. Gudir þínir veit eg villa vísid hjarta, og frædum mínum føgrum spilla í frjálsu hjarta.

30. Gegnir svinnur Rúmi nú: þó ná- um giptast, hvørt skal sinni halda trú, en hvørgi sviptast.

31. Ødru tali aptur þá hinn aldni veld- ur: Kóngs í sali koma má ei kæran heldur.

32. Þú munt brádum, því skal spá, med þrekid stinna, krýndur dádum konúngs háa krónu vinna.

33. Rúmi þannig: hót þitt hjal mig hindrar eigi; forrád manna eg fordast skal, þó fánga meigi.

34. Aptur gætti orda þannin askur veiga; með þeim hætti má þig svanninn madur eiga.

35. Adur enn þýdist mundu meyar, meina skérdur, sóknar hrídir Sikilenar sækja verdur;

36. Medan strídid magnar trylt á Mistar flóa, þín skal eg bída, þar sem vilt, med Prúdi glóa.

37. Númi kætist, fadmar fljód og fødur blída, sídan mætur svorin góð nam sona þýda:

38. Medan stríd eg þreyti þad, vid þokum hédan; kæran bídi í Kúres-stadnum kyr á medan.

39. Kallinn búast burtu nú sem brádast lætur; sídan snúa þadan þrjú og þreyta fætur.

40. Kúres finnur kempan stinna í kransi hinna; létt er svinnum lid ad vinna landa sinna.

41. Leyna frú í litlum stad, þeir listir stunda, hreinan búa her med nad til Hristar funda.

42. Sex þúsundum sørva lundur safnar manna; brann í mundum bláa tundur Blindar ranna.

43. Herinn gildi hrífur skildi og hetti járna; munu í Hildi hvorgi tryldir hugir sárna.

44. Rúmi qvedur kærast fljóð, þau kysśast leingi; síđa vedur vega slóđ med vaska dreingi.

45. Klárar strjúka foldar fidur fóta-hvatir; gotur rjúka, glumdi vidnr grjót og flatir.

46. Par sem skeida, fnasa og freyda fákar voga, kletta meida, en brautin breida brann í loga.

47. Fákur kremur fold og lemur fóƚum breidum; þar vid nemur, Rúmi kemur nidur ad skeidum.

48. Leó þar vid løginn var med lánga kneri; frama-snar hann fagnar skara fjardar Gréri.

49. Leó bidur hal ad hrada heldur reisu: nú skal ida allt á stad í eirdar leysu.

50. Dvelur-leingur um þad eigi ýta grúinn; herinn geingur fram á fleyin fagurbúin.

51. Ferjur stikla á fljótid mikla, og ferdir jóku; bárur sprikla, og brýr í hnykla bretta tóku.

52. Rauk, sem tundur, áls vid urdur ægis froda; fljóta hundur hýddi sundur hryggi boda.

53. Öldur hráar granir gráar grettu að stöfnum; rumdi hávar risinn fjáar rómi jöfnum.

54. Oð á skeiði öldu meiðir undan boðum; þrumdi reiði, lifandi leiði lék í voðum.

55. Skorin þá í Skafla lá, við skutinn orgar; vindum þráu voðin háa valla torgar.

56. Storma leingi svala svelgir svánga voð-in, qverkar þreyngir og bumbinn belgir, býl-ja troðinn.

57. Svo skínandi Sikiley úr sæsi líður; ber að landi fögur fley, þar ferðin bíður.

58. Binda sveinar seglið hvíta, saddir önn-um; akkers fleinar botnin bíta beittum tönnum.

59. Leó fer á litlum knör að leyni-klettum; nú vill géra njósnar för, og ná sér fréttum.

60. Snúið sinni hefur húð með hettu síða; smala finnur ferða lúði fleygir skíða.

61. Smala skauði skelk hinn stóri skröggur vekur; undan blauður æða fór, og orga tekur.

62. Nær með hreysti hetjan kenda halnum trega, hótar kreista og helju senda hraparlega.

63. Nema segi um síði landa sögu rétta; hinn qvaðst fegin vafinn vanda vilja þetta:

64. Kastor heitir kóngur vor, hinn krapta stóri; hjör að beita hefur þor á hraustum jóri.

65. Hann er ríkur, hann á land, og hvað sem tíðir, hann er líkur hálfum fjanda, helst ef stríðir.

66. Allt hans lid er útbúid med Øri og boga, ílþýdid ad eiga vid, sér aungvir voga.
67. Festar meyu fylkir á, þó fatist kæti; hún í reigin-homrum má nú halda sæti.
68. Fjøgur hundrud hamrammastir hrotta draugar, vakta mundu varnar fastir vefja bauga.
69. Vill ei þýdast Skjaldmey skær þann skjøldúng strída; því skal bída þrálynd mær-in þægri tída.
70. Fleygdi í brædi frægdar mann, þeim freyddi svørum; sídan ædir ofan hann ad eig-in knørum.



# Fjórtánda Ríma.

Hvad má strída stytta tíd, og stødvun qvída forma? Þad, ad smída ljód, og lýd, létta grídar storma.
2. Vetrar bindur møgur mýnd, mjúka lind í fjøtra; hrista vindar haudur-grind, hræfartindar nøtra.
3. Þegar ljód um fjøll og flód, flutjust hljód-um betri, hvurgi þjódin heyrdi gód, hrinur í ódum vetri.
4. Rád til ber: ad herda hér, hljód og skéra penna; illa fer ef máské mér, mædan er ad kénna.

5. Fjúki ljóð um lög og flóð, lífgi hljóðin mjöð-
ur; vekjum þjóð að viðris glóð, vætum blóði fjöður.

6. Vekjum svein og veiga Rein, vekjum hreinar
meyndir, vekjum einatt vesða grein, vekjum steina
og lindir.

7. Vér forsmáum þögn og þrá, þyljum náum
sálma, streingjum háu hljómi á, hrinur bláu skálma!

8. Frægstum bjóðum bauga rjóð, brag í ljóð-
um annan, sem af góðu þiggur þjóð, þráfaldt hróð-
ur sannan.

9. Biðjum, mýrar bála Týr, bragar skír að
rúnum, lagi rýran ljóða vír, og lesi hýrum brúnum.

10. Kasta má eg þánka þrá, þar við náir lenda:
mun ei sá er meiðmar á, mærð forsmá þriheuda.



11. Leð óðum æsir hljóð, útl
slóð á skeiðum; kallar þjóð að kynda af móð,
kjalars glóðum breiðum.

12. Brjótar randa, reifðir brand, róa í
land af vogi; þekur strandar svalan sand,
sveit í andartogi.

13. Upp um rása úlfa bás, örn þar krásin
vekur; skjálfa ásar, Etna hás, til orustu
blása tekur.

14. Vekja þrumur hlífa hlum, hljóða
skrumi valda; Helja gúmum ferða sum, fýs-
ist sumum gjalda.

15. Kóngur sá, er eyu á, arka náir vega, lætur þá í hornin há, hrópa ákaflega.

16. Fara saman Hárs í ham, hópar ramir beggja; skjøldur hlam, þar herinn nam, hvøss-um grami leggja.

17. Það var nær, sem þrumur tvær, þreyngist, ærar saman, skýin hræra púngu þær, þróttinn stæra raman.

18. Svartar fara Sikleyar, sveitir þar í flockum; hvur ormþvara og boga bar, og brynjurnar á skrockum.

19. Á fæti hýdir Leó lýd, leizt nú tíd að vega; Rúmi ríða nam, og stríð, nærir gríð-arlega.

20. Kastor sjóli í kérru stól, knúði fólin skjalda; gráum dóli Grana kjól, og Grímnirs sól nam valda.

21. Logar hấu Grana grá, í greipum frá eg brynni; skéldi þá með undrum á, ógnar ná-hríðinni.

22. Hel í dauða dansinn baud, dørva Haud-um stíga; ledja saud í sárum raud, syrti að naudum víga.

23. Leó fer að farga her, forkinn ber og hamast; fordar sér og hrøckur hver, hlíf-ar berar lamast.

24. Sundur molar hlíf og hol, hann með

svola augum; mørgum þolir bylta bol, blóðs ad skola laugum.

25. Oviðir føllum øldin øll, und' brynntrølli megna; kiknar vøllur, kynja fjøll, kylfu skøllum gégna.

26. Hlífin springur hørd og ríng, haudur þýngist draugum; sverdmæringur sig um kríng, safnadi dýngju haugum.

27. Brann af hørmum hetjan vørm; hels ad Gørmul*) vogi; Helja førmum fagnar ørm, fossar af hvørmum logi.

28. Kastor sá nú hetja há, hildar á þíngonum, braust hann þá med brædi frá, býsna nádýngjonum.

29. Fúlhamadur hrædir hvad, hótar skada kollum, sig hann badar belti ád, blóðs í vadalpollum.

30. Kóngi nær í kísi ær, klóta mæri þundur; kylfu slær, svo kérran skjær, klofna fær í sundur.

31. Fyrr en hraut á flata braut, fylkir naut sér varna; spjóti skaut, sem geira Gaut, gein yfir brautum hjarna.

32. Fleinninn sá kom ennid á: elda láar vidur, anngvit má hinn frægi fá, og falla náinn vidur.

---

*) Gormul er Ar heiti sjá Skáldu.

33. Daudan þann svo meina mann, mildíngs grannar vera, ópid glanna glymja vann, um grídar ranna þvera.

34. Rúmi í herdir nada ferd, í nordanverdum flocki, klýfur sverdi manna mergd, molar gérd af skrocki.

35. Frægur vód, ad fella þjód, framm í blódøldonum; mønnum hlód, svo eldin ód, undan hljódar honum.

36. Par hann er, og bæsíng ber, brytjast herinn falnum; heyra fer, hans fallinn er, fóstbróder í valnum.

37. Líkt og snjáa eldíng á, ekru náir drífa, reid hann þá, en reckur þrá, rigna gráu hlífa.

38. Brytjar nidur blódugt lid, ad bádum hlidum vegur, braut sér rydur nodds í nid, núna fridar-tregur.

39. Margur deyr, þar gnaudar geir; gumnar keyrast sárum; skatnar þeir um skøglar leir, skolast dreyra bárum.

40. Odins ranna eldíng kann, aldri manna sóa, mjøg sú brann þar hellir hann, holundanna flóa.

41. Vallar stundi glódraud grund; gæfu stundum hamlar; hjálma þund vid hlífa fund, Helja undan svamlar.

42. Margir sjá, hvar þessi þá, þrasir bláa gýgur, kreisti nái, blæk að brá, og blóðið hráa sýgur.

43. Fer um voll með óskøp øll, eykur fell-in meina; øld má snjøll við eggja gøll, und-an trolli veina.

44. Númi fer þar ødlíng er, óðum ber þá saman, riðlar her til síðu sér, um sóknar verinn raman.

45. Fleygir spjóti fylkir mót, fleina njóti herður; hetjan fljóta heaðir klót; hans það bótin verður.

46. Númi reiðir hauka heið, hjørinn breiða og rauða, skjøldinn sneiðir, líka um leið, á læri meiðir kauða.

47. Annað høgg þá hóf með røgg, hilmir gløggur móti, egg af skrøgg þá arminn tøgg, eins í snøggu hóti.

48. Kallar þá með hljóðin há, herinn slái gramur: Núma frá sig leysa og ljá, lið, því sá er ramur.

49. Mæðast fer, sá bæsíng ber, og brytja gérir þegna; miklum hér á málma ver, meg-in-her að gégna.

50. Einn hann slær, að undrum nær, og arma þvær í blóði, hans er kæri herinn fjær; hetjan særist móði.

51. Sóknir vara sárar þar; síg fær varið höldur; sverdið bar, en seggsins var, sundurbarinn skjoldur.

52. Vals um bý, við vopna gný, vitkast því óhrakinn, Leó dýum unda í, upp að nýu vakinn.

53. Núma sér í nauðum er, næg þar gérist deila; kylfu ber, og brjóta fer, brøgnum kérin heila.

54. Eins og stráin, lamin ljá, líða dáið kalda, høfuð náir høldum slá, hamaður þráinn skjalda.

55. Kónginn sér nú hann hjá her, handar er-sá vana; híngað fer, sá heiptin skér, honum kéri bana.

56. Varð ei snotrum þróttar þrot, þóktist notum ljúka: hilmis rotar heila slot; hausa brotin fjúka.

57. Fylkir náinn fellur á; feigðin þjáir dóla; híngað þá sér Helja brá, og heingði þráan sjóla.

58. Fellur hver, þar fyrir er, sláður berum korða; allur herinn hopa fer; hvør vill sér nú forða.

59. Hofðu fundið bana blund, bjóðar mundar fanna; eptir mundu enn á grund, ein tólf hundruð manna.

60. Líka fáa' á lífi sjá, Leó má og Númi, hundrud fá þeir fjøgur þá; fótblts bráir húmi.

61. Málma verar máttvaner, mædi bera nóga; en døglíngs her, sem dapur er, dreifir sér á skóga.



# Fimtánda Ríma.

Farsældin med fridnum er, sem fadmar brjóstid varma; strídid sæmd og sælu ver, sára vekur harma.

2. Eins og lind og ládid á, lognid breidir klædi, aungvir vindar anda ná, af því fyrir mædi.

3. Þá úr heidis háum stad, hita sólin rydur, og hárid greidir gullfjallad, í gaupnir jardar nidur.

4. Yfir sáir ilnum góð, alt eins lá og heiminu, hvørju strái á hvørri lód, hjúkrar þá ógleyminn.

5. Glóa hagar, glita fjøll, gyltar fljóta idur, þar flatmaga foldin øll, fadminn breidir vidur.

6. Allar myndir, land og lá, lofa heppni fína, drecka yndis anda þá, endurlifna og hlýna.

7. Allar rætur vakna vid, vøxt og aldin bera; þetta læt eg líkast Frid, Lognid meiga vera.

8. Ecki neinu ógnum Strids, oss er hægt ad líkja, átu meini lands og lýds, lífs, og kónga ríkja.

9. Eins og brjóti bláu fjøll, bølvud elda spýa, og jardar rótist idur øll, upp um veldi skýa.

10. Alla hrellir ógnin þá, yfir skellir kýngjum, gróna velli og akra á, øsku hellir dýngjum.

11. A burt fælir alla ró, eird og sælu kefur, landid svælir, lopt og sjó, lifi' ei hæli gefur.

12. Blódug strídin þannig þjá, þar sem geysa yfir, myrda og nídast ódsær á, øllu því, sem lifir.

13. Burt ad flæma frid né stríd, sært mun verda þeigi; vér skulum sæma verkin fríd, en vondum hrósa eigi.

---

14. Leó fer úr fleina byl, fylgir Númi honum, og sá þer sem enn er til, upp ad bláfjøllonum.

15. Þannig dragnar djúpi frá, digur jøtun boda, dimmur magnar búkin blá, bjørginn vill hann troda.

16. Brúnum veltir frodu frá, firna ógurligur, um sig beltir øldum þá, af þeim verdur digur;

17. Sídan skellir bjørgin blá, í brædi lødrúng gefur, úr sér hellir þrótti þá, þeim er safnad hefur.

18. Leó þannig færast fer, fram med sínum lýdi, fjallbúanna hittir her, og hellir yfir strídi.

19. Hinir taka hamóðer, hjør og skaka ódum, undir braka bjargið fer, berserks maka hljódum.

20. Fleina stælast fundir þar, freka þrælar ýmu, blódi æla undirnar, ýskradi kælan grímu.

21. Vodin Odins hrofnar, hvar, hroda-þjódin tredur (rodinn blódi vigur-var) voda-hljódum medur.

22. Leó þjáir hrika-há; halurinn brá-sølvadi, hjó í strá það hittir sá, hausa smá-mølvadi.

23. Fjalla-þjódin fólkið á, fleygdi ódum grjóti; þó fossi blód; sem fljóti á, fast þeir stódu móti.

24. Hvur sem fund vid Núma nær, neyd-ar stunda bídur; jøtnar hrundu, hvar hann slær; hrøkkur undan lýdur.

25. Brytjar menn, sem blautan snjá, branda spennir módi; fjalla enni ofan frá, elf-ur renna af blódi.

26. Leó fer í fjalla ból, forkinn ber í hønd-um; brúdi sér, hún sat á stól, sveipud er þó bøndum.

27. Leysti Vidur fleina fljód, fara kjør að skána; stúlkan bidur meina-mód, mann, sér hjør ad lána.

28. Ut sem hardast sæta og sveinn, sér um

gardinn þreyngir; Númi vardist enn þar einn, og hans hardir dreingir.

29. Fólkid hnígid fjalla var, flest í vígi ódu; en ad gnýi eggja þar, átta týgir stódu.

30. Nú var hríd ad høldum gjør, hjørvum strídir flíka; skjaldmey frída fram med dør, fór ad rída líka.

31. Eggjar spannar únga sprund; ad þó glannar slani; þó vard svanni á þessum fund, þriggja manna bani.

32. Hreysti-vøldu hetjurnar, hríd sem tryldir drýgja, alla qvøldu aula þar; einginn vildi flýa.

33. Hel þó spanni marga menn, mistu flesta hinir; hundrad manna eptir enn, áttu bestir vinir.

34. Búkar daudu í búnkum þar, byrgdu haudur núna; af dimm raudum dreyra var, drifin Auduns rúna.

35. Svo skulu leidar lúra þár, lyddur, neyd sem fánga; bauga Heid og hetjurnar, hratt á skeidir gánga.

36. Fadmar hlýa vísa val, vopna Grérinn mestur; nú skal vígja nipt og hal, Númi veri prestur.

37. Alla kann frá æsku sá, athøfn presta beimur: offrar hann til heilla þá, hvítum lømbum tveimur.

38. Les og tónar líkt og ber, lagi beitir høgu, en vígslan hjóna ecki er, innfærd hér í søgu.

39. Akker vindast upp úr sjá, ægir tautar vidur; seglin bindast húnum hjá, hleypt er skautum nidur.

40. Blærinn gerir vær úr vør, voga héra ad toga; lídugt snéri stýri knør, strauminn fer ad soga.

41. Aldinn grædir yglir brár, ecki luktu tregur; ysirklædin unnar blár, øll í hruckur dregur.

42. Skeid á boda bøkin þá, bólgin upp sig vegur; spýtir frodu og øldum á, anda þúngan dregur.

43. Hrannar óra hrinum skeid, hlýtur undan gánga; margan stóran lødrúng leid, lamin um báda vánga.

44. Streingir togna, kylju kast, keyrir skeid óraga; seglin bogna og belgja fast, bylja-trodinn maga.

45. Vinda-hladin skjálfa ský; af skørum blæi fleygja; knørinn badar brjóstin í, blódi ægis meya.

46. Reingur braka, reyníst gnod, reslar flaka og digna; steingum þjakar þúnga vod, þær svo taka ad svigna.

47. Jøtun vinda hristir hramm, hræríst lind að geysí; bylgjur hrinda ferjum framm, og flana í myndarleysí.

48. Nøldra gera Nílar hjón, nøtrar í hverju bandi; hafið þver, en þornar frón; þetta ber að landi.

49. Rán og Ægir þagna þá, þornar lægirs héri; bragnar frægir festa á, føgru lagi kneri.

50. Gánga lýðir landið á; Leó síðan vídur, Núma i friður þannig þá, þægar smíðar qvíður.

51. Vorir skilja vegir hér, vogs hjá breiðum mølum, nema viljir meður mér, mynda bygð í dølum.

52. Þángað halda ósk mín er, og þar lifa og deya, því eg aldrei ætla mér, optar stríð að heya.

53. Fjarlægt óðum landa lýð, líffíns heillir skína, þar um góða gæfu tíð, Guði dýrka eg mína.

54. Til Camillu Leó leit, ljúft á sprundið horfði; hvað hún vill, ei hetjan veit; hún komst þá að orði:

55. Þar mín eigin óskin trú, að, minn vinur, kémur, að Núma eigir aldrei þú, yfirgefa fremur.

56. Vid skulum byggja bæi tvo, báðum hjóna pørum; búskaps hyggju sinna svo, í sameiningu førum.

57. Skal eg klæðum skjaldmeyar, skýla í bænum vørmum, og nógleg gæði nota þar, í náttúrunnar ørmum.

58. Leó sprundi þakkar þýtt, þessa ræðu sína; Núma mund hann býður blítt, bróðurlega sína.

59. Hvar sem eydist æfi vor, (øtull nam svo þylja), vid skulum leidast vina spor, víst og aldrei skilja.

60. Fadmar bæði sljóð og hal, med føgrum Númi ordum; svo frá slæðar feta sal, fjergynar á stordum.

61. Fífu reynar slýta sér, fjalla gøtu lánga, Númi einatt undan fer, eptir hjónin gánga.

## Sextánda Ríma.

Þak þú einatt yfir minum, Idun, qvæda saung, og med hreinum hljómi þínum, hindra orda þraung.

2. Vektu røgg í veiku sinni, vizku, styrk, og þor; láttu í vøggu leika þinni, lystugt børnin vor!

3. Hvur mun núna á haf þaks grundum, hródur gladan sinn, fagurbúnum bjóda sprund-um, best í stadinn minn?

4. Ad þeim leidist, er mér vita, ærin neyd, og því, eg í hreidri Hræsvelgs rita, háttu greida' á ný.

5. Mørg ein rjóda mærin hlýddi, mínum ód ó-treg, og minn hródur ecki níddi, ofur gódmótleg.

6. Med áqvæda mætti strídum, mínum svædi á, qvad eg mædu og mein frá blídum, Mønum klæda þá.

7. Pegar sjóar sóla nettust, selja bjó mér nær, sorgin dó, en sansar léttust; seinast hlóu þær.

8. Svo er enn þá seinni daga, ad sitja' eg nenni hér, veisa penna og vísur laga, vegna qvenna er.

9. Enn þá Freyum orma leira, ann eg feginn hér; en þad má ei hún Idun heyra, og svo þeyjum vér.

10. Helst mér eru hollar nætur, heim á Frera-slód, mig nær berast blundur lætur, blíd hvar eru fljód.

11. Um Snjálandid andlits fríða, eins vak-andi hér, minn Hjaranda hrafninn-vída, ham-farandi er.

12. Ætl' eg mundi ecki hédan, Ís á grund-ar stig, yfir sundid orka ad qveda, eina stundu mig?



13. **Rúmi er á undan hin-**um; eitthvad ber þar til: helst hann sér á von á vinum; vel þad hér eg skil.

14. Kåres finnur kæra ranna, kémpan svinn í hast; hann fer inn að hitta svanna: helst þau mynnast fast.

15. Arma bindur um forsjála, eisu lindar Bil; hvur vill yndis almátt mála, er þau fyndu til?

16. Óforsjálan heldur héldi' eg, hvørn það brjálar mál; því það er að mála eld með eldi, eða sál með sál.

17. Leó kémur og qvendið fríða, kjæti nemur fá; qveðju fremur flytja blíða, flestum semur þá.

18. Eptir blíðufulla funda, ferðast lýða val; álfar ríða eisu sunda, að einum fríðum dal.

19. Tvø smáhreysin børvar byggja, brúar eisu þar; eirðarleysið enda hyggja, og allar reisurnar.

20. Þegar búið bygðir hafa, best í trúum stað, føgur nú skal niptin trafa, Rúma snúa að.

21. Hinn vitrasti hugar-mildi, er hatar lasta smeck, Sérðaster vígja vildi, víf kærast og reck.

22. Meðan ræðu sína semur, sá fær gæða tóm; ockar qvæða efni fremur, inn í slæðist Róm.

23. Gæddue hóli, en gædsku midur, í Gauta kjóla hríng, heldur sjóli herinn vidur, á hánm sicli þíng.

24. Rómúls laungu rædum hlýda, reckar straungu þar; njótar slaungu nætur bída; nóg mannþraungin var.

25. Ségnum rekinn gilsi verdur, geiri frekum þá, heli tekinn, heilla skérdur; holund lekur blá.

26. Hann sem bródurs heitu byrgdi, hendur blódi med, og Tasa hródur-háan myrdi, hníga slód á réd.

27. Klókir dreingir felur finna, fúlu reingi þá; hvør á þeingil vann ad vinna, vita eínginn má.

28. Saman spann og sögu nýa, fægur granna þá, ad væri hann til himin-Día, hafinn ranni frá.

29. Quiriníus hann skal heita, himinskýum á, Rómum því hann vörn má veita, ef vopna lýir þrá.

30. Vakna þrætur þúngra nauda, þollum mætu brands, hvur skal sætid erfa auda, eptir gætir lands.

31. Hersilíu á tróni tídir, tign spánýa fá, en hún má flýa hrædd um sídir, hrakinn býnum frá.

32. Frekast þræta Svidris svønum, svart um nætur hvel; sverdin væta sig á grønum, summm mætir hel.

33. Sveitin híngad fer í flocka, fleina þíngid á; Sabíníngar Røgnis rocka, Róma stínga þá.

34. Um nóttu dimma nídingslega, nadda þrimma jókst, øldin grimm er ær ad vega, ógna rimma tókst.

35. Sígur blód í voga vída, víga slódum á; hnígur þjód, þar sterkir strída; stígur móda há.

36. Hlymja gérdar, hjálmur lætur, hvítíngs skérdast børd; glymja sverd í nidi nætur, nøtra verdur jørd.

37. Herinn slag hinn hardi vekur, hátt uns dagur rann; nárinn haga þúngur þekur, þjódin baga fann.

38. Yta milli Oldúngarnir, þá ókjør landsins sjá, fóru ad stilla fridar gjarnir; fleina stansar þrá.

39. Einn sér bidur bragna hlýda, birtu vidur damms: Pompils nidin, Núma frída, nefnum vid til Grams.

40. Allir játa og undir taka, óska ad hlýda því; og þá láta laufann spaka, leita stódur í.

41. Blóds um valla brautu rúma, bølid

dvína vann; hrópa allir: Heill sé Núma, hamíngjan, krýni þann!

42. Nú er eingin ójafnadur, allt samsinnir lid; svo er feinginn sendimadur, siklíngs finna nid.

43. Hann til Kúres heldur stadar; um hetju spur hann þar; frétti trúr sá seidum hradar, silkirs bur hvar var.

44. Finnur halur (ferdir bresta) fjalla yndis skjól; qvøld þad skal sér kæra festa, kémpan linda Sól.

45. Djúpt sig hneigir hirdir skjóma, hann svo spjalla réd: heill þér, segir hann, hilmir Róma! hrósi allra med.

46. Allt hvad skédi, eins réd segja, ør ad fregnum hann; Númi á medan þá réd þegja, þvínæst gégna vann.

47. „Þó mig høldar hylli og ginni, hvad „sem skédur gér, ydar vøldum ei eg sinni, „eda hédan fer.

48. „Fjalla skjól eg vænna virdi, og værri „á hér stad; um tignar stólinn hót ei hirdi; „hermdu frá mér þad.

49. Audmjúkastur aptur vekur, óskir sendimann; enn Sóróaster tala tekur, til svo vendir hann.

50. Þín er skylda, Númi, næsta, (nú

þar lendir við) fólkið milda orustu-æsta, og því senda frið.

51. Ástin þína athøfn villir, en að því gáum hér: dóttur mín og hennar hylli, horfin frá þér er.

52. Ef þú tekur á þig þeigi, øðlíngs skrúðann kær, þú ert sekur, þá svo eigi, þýðast brúði fær.

53. Hins þú vís ert, hetjan fróma, (hér við nem um sinn) Anaís í ríkið Róma, rjóð ei kémur inn.

54. Hetju greiðist heillir sáttar, harma eyðist stund! Númi reiðist, hér næst háttar, hann við leiðann blund.

55. Númi vaknar, nam sig klæða, næsta hasta réð; æ hann saknar svanna gæða, Sóróasters með.

56. Leó frægi fætur þreyta, fer og hinn, sem má; allan dagin eru að leita, og ekkért finna þá.

57. Hvíla um nótt í hlýjum lundi; hauðurgrasi á; Númi fljótt þá fær í blundi, fylkir Tasa sjá.

58. Roðinn blóði regin-sala, roskinn búi er, hann af móði hóf að tala: „hlýða nú skalt mér.

59. „Ef að fer þú ei til Róma, og óst-

„um géguir þá, þúnga bera þrauta dóma, „þinna vegna eg má.

60. „Þú ef sezt í sal valdanna, sæll eg „fríast þá, en þú skalt mestur mildínganna, „mætinn Díum hjá.

61. Rúmi slepti hálfum huga, høggva dái' órór; sér hann eptir albló̈duga, ødlíng, þá burt fór.

62. Vekur sína vini kæra, væn því skína ljós; rædu brýna rédi mæra, roda Einar sjós:

63. Ad tignar-fróma fylgid stóli, frægir halir mér! jeg er Rómaríkis sjóli, rétt sem valid er.

## Seytjánda Ríma.

Skal eg meiga um Skáldin nockud tala, fyrst eg er ad erja vid, óbúsæla handverkid.

2. Nafnid þad menn naumast vinna kúnna, fyrir þad ad ríma rétt, sem regla verdur fyrirsett.

3. Ordfimni og æfdur leingi vani, gefur þessa gódu ment, þó geti máske fáir kent.

4. Ord og þánka alla úr hinna bókum, þegar láta þrykta skrá, þursa slíkir jafnan fá.

5. Eins er þad um útleggíngu qvæda, ef þekkir bædi þjódmálin; þetta gerir rímarinn.

6. Hinn er Skáld, sem skapar, fædir, málar, myndir þær í þánka sér, sem þecktum aldrei fordum vér.

7. Hann sem sér med hvøssu sjónar báli, huldq gegnum hugi manns, og háa frædi Skaparans.

8. Hann á allann heiminn til forráda, býr á haudri, himni og sjó, en hæli eckért sestir þó.

9. Hann foraktar, hædir stoltan dára, lítilæckar hógvær hann, og hefur brádum leidrettan.

10. Hann í snaudra hreysi gladur kemur, þurfa mannsins þerrar tár, þótt hann eigi hafi fjár.

11. Hann í ríkra hjørtu laumast gétur, heimtir þar hins þjáda braud, og þannig honum léttir naud.

12. Drugt rædst hann eigin bresti móti, fram svo kémur hnípinn hann, hvássa fyrir dómarann.

13. Hann sér upp til himin lyptir sala, af skærsta ljósi Skaparans, skýmu g'illa sjónir hans.

14. Algjørt skáldid øllu þessu veldur; en hitt er víst, vér finnum fá, fulla makt sem eiga þá.

15. Einginn máské er, né verid hefur, módur jørdu ockar á, adalskáld sem nefnast má.

16. Fel eg mig í flocki rímaranna, því ætíd gét eg eins og þeir, arnar saman hnodad leir.

17. Einnig gét eg yrkjum snúid hinna, úr þjódar málum, þeim eg skil, og þarna grípur margur til.

18. En nær vil eg eigin-smídum hreifa, og skapa réttu skálda mál, skortir bædi haus og sál.

19. Kóngurinn Rúmi kappa medur sína, heim til Róma heldur leid, hugur þó í leynum qveid.

20. Vagna fjøldi og volduguſtu herrar, koma móti kóngi þá; kérru gylta ſezt hann á.

21. Báſúnur og bjøllur ſnilli gjalla; heſtar fótum hýda lód; hilding móti ſækir þjód.

22. Konan Odins kinna-rjód og fegur, illa meidir andlit þá, økla breidum jórum hjá.

23. Hilmir Róma heim med sóma ridur, Kapitólíum kémur á, ad konúngs ſtóli geingur þá.

24. Hóf ſvo rædu; heyrid, brædur, vinir! ordin há og eidſtaf minn, er eg tjái í þetta ſinn.

25. O, þér hæda hædſtu gæda Díar! veitid rád og vitſku mér, vel ſvo ládi ſtjórni hér.

26. Sé hér nockur nú fyrir ockar ſjónum, verdugri, ſvo veljid hann, og víſid oſs á þenna mann.

27. Sé þad eigi, ydar feginn vilja, eptir hneigja eg ſkal minn; og þá ſegiſt Kóngurinn.

28. Ad eg þjódum þeſsum gódum efli, dygdir, gædi, gnægtir, frid, geſid, hæda Díar, þid.

29. Því næſt ſjóli ſezt á ſtólinn háa; krónu fól nú høfud hann, um hana ſólin flóa brann.

30. Tída ſkrúda tignar prúdum ſídan, glódum Udar um vaſinn, ad ſér hlúdi kóngurinn.

31. Veldis háan hirda nâir sprota; toppi á, þeim efstur var, arnir sâust gullsteyptar.

32. Vængjum bada velskapadar fjórar, arnir þadan ofan frá; ýsu tradar ljósin gljá.

33. Nú hafa prestar næsta mest ad starfa; uxum flestu offra þá, eigi bresta lømbin smá.

34. Innýflin þeir ad því sinni skoda; þjódin hinna þar í hjá, þøgn alsvinna rækja má.

35. Uns ad prestar upp sig hrestu í máli, allra mestu audnu spá, og árum bestu þadan í frá.

36. Orgar þjód í einu hljódi og qvedur, þennan ljóda lofsaunginn: Lifi gódi kóngurinn!

37. Númi lifi! Númi þrifum klædist, hædstur yfir ekru lands! aldrei bifist veldid hans!

38. Packar gramur gæfusamur meingi, geck svo heim í herbergid, hefd og seinni tekur vid.

39. Af megin-sjódi milli þjódar snaudu, (mildi góda metur hann), mjóli Fróda sálda vann.

40. Eitt sinn tiginn elda dýa skjóki, einn um bý med aungvan reck, í Egeríu lundinn geck.

41. Létti huga hans; um buga skóga, qvøldandvarinn ida er, vid eikurnar hann leikur sér.

42. Fugla hreinu hljódin einatt tóna, fløgta greinum ýmsum á, aflid reyna vængja smá.

43. Hinir úngu í hópum súngu qvæði, eldri kúra qvistum á, kjósa dúrinn væra að fá.

44. Númi leingi í lundi geingur fríða; daga hinna heldur þá, hetjan minnast gjörir kná.

45. Lind þar eina lítur rennir fleina; vatnið hreina þyrstur þar, þrotinn meina' að vörum bar.

46. Í lundi háum heyra nàir sjóli, vatna bunu hollri hjá, hvella duna röddu þá:

47. „Þú dauðlegur, því vilt tregur vóga, „mína hreina að lepja lind? ljétu meini veldur „synd."

48. Númi stanzar næsta; hans er gáta, að runni smáum ráði þar, regin-háu dísirnar.

49. Vísir segir: vita ei eg mátti, að vatnið eigir, Gyðjan góð! gét eg slegið því á lóð.

50. Aptur svarast: eg þér, hari, leyfi, á vatni drýgja vökvun hér; en vit að Díar búa hér.

51. Egeríu á eg fría heiti, enn minnið nauma máské brást, mig í draum þú forðum sást.

52. Lýtur niður ljúft og biður sjóli: síst er liðin minni mín', myndin, iðu dísin, þín.

53. Leyf eg fái líkhams sjá með augum, ímynd háa ennú þín, æðsta láar Gyðjan mín!

54. Géf mér ráð með rausn og dáð að stýra, lindar día ljóminn, hér, landi því, þú skeinktir mér.

55. Gydjan segir: sjá mig eigi máttu; en þegar vandi á efnum er, adspyrjandi komdu hér.

56. Eg skal vara veldi hara meinum, ætíd svara ædstum þeim; og nú far þú burtu heim.

57. Heim géck Baldur hædstu valda stóla; þókti betur þessi for; þar af gétur ædri kjør.

58. Á øllum qveldum ødlíng heldur vana, þeim, til kéldu ad þoka sér; þadan veldis rádin ber.

59. Ad þeim rádum átta skrádi bækur, bædi um løg, og lærdóm þann, í løndum mjøg er tídkast vann.

60. Svo framlída sældár tídir frídar; hilmir, stríd sem hata kann, heima bída spakur vann.

61. Því í lyndi leikur yndi og fridur; losdúng setur landvarner, Leó gétur stjórnad her.

62. Strídsmenn flesta stýrir mestur þjóda, lætur plægja lønd og sá, lucku hagir vara þá.

63. Skal hann fá í fridi þá ad búa, hédan í frá? eg held þad vart; háttum sjáum brugdid snart.

## Átjánda Ríma.

Fer ad hlýna mold og mar; muntum reyna ad færa, edla Einar álglódar, yrki mín sem heitid var.

2. Feginn vildi' eg voldugann, vísum ljósum medur, kæta mildíng meidma þann, mest er snildar háttum ann.

3. Skulu tindum fjalla frá, fjúka lokin qvædi, yfir lindar öldur blá, ýmu vindar krapta ljá.

4. Ferda ólma fljúgi skrá, fyrr ei kyrr má vera, um streingja Bálmar stadi há, Styckishólmi-lendir á.

5. Veit eg Hnikar haffólar, hirdir virdur tóna; svanur qvikur Siggautar, samanlykur fjödrum þar.

6. Því skal öllum hreifa hér, háttum mætti eptir; vísna spjöllin gjalli gér, Grænlands fjöllin dilli mér!

7. Svo ad heim í hýbýlin, hinna svinnu vina, hörpu seimur heyrist minn; hanrar eiminn leingi sinn.

8. Jeg skal eggja björgin blá, ad bylja holum rómi, svo mér leggi lidsemd þá, landa tveggja fjöllin há.

9. Öll mín ræda anda: smá, ef svo nædi takast, lopti, grædi og ekru á, eitt samqvædi verdur þá.

10. Streingi voga eg festa fá, fjalla kolla milli, sjálfur og þeim sitja á, saungva boga fara um þá.

11. Eg skal nídast þar á þeim, þéttum státtum medur, uns med prýdi yfir geim, eg um sídir qved mig heim.

12. Hér skal nýa hefja' skrá,

vid hina vini skilja, hvarra stíu hita Gná, Hersilíu minnast á.

13. Hún var rèkin ríki frá, reid, og þadan flúdi, hefndir frekar hyggur á, hreidurs dreka-grimma Ná.

14. Því næst frétti fælda Gná, fröm úr Róma veldi, ad stólinn netta niflúngs á, Númi settur væri þá.

15. Heiptin ærdi hugann þá, hún ei neinu eirdi, litla færdist leggi á, landid kærdi aptur fá.

16. Marsa lýdi fræga fann, frid, og beid-ir stoda, ad hefja strid vid hilmir þann, sem hennar nída eignir vann.

17. Alor sterki enn er þar, ádur í qvædi tédur; hann vill lerka hlífarnar, og hennar merki fylgja snar.

18. Fegurd meyar hvetur hann; hún af neinu ei tekur, ástum sleginn afreks mann, eld-á vegin leida kann.

19. Marsa fría þjódin þá, þrúdi klæda fylgir; kæran hlý med kappa má, Kampaníu landi ná.

20. Mildíngs nidur mætur þar, Míron var ad nafni, stála hvidum vanur var, voldu-lídi rædur snar.

21. Leizt á idu ljóma Gná, lundi sinna mána, fer med lídi þrekinn þá, Pundar nída-vedur há.

22. Padan hvata þjódir tvær, þykkur flock-

ur verdur; andar ratar Eya skær, Antemnata bygdum nær.

23. Líka vinnur þessa þjóð, þýdum rædum medur; strandar linna Stordin rjód, stálbúin var fylkíng góð.

24. Ferda hvetja fróns á mel, fridir þjódir brædur; styrjar hreti vanir vel, Viktor hétu og Adriel.

25. Hérnæst rásar hédan frá, her med bera skjóma; notra ásar undir þá; orustu blásá hornin þrá.

26. Aungvu fljódid eira bad, en ollu spilla og myrda; kémur þjód ad Kúres-stad; kynda glódir bænum ad.

27. Mest ad undrum elda var, ædid hrædilega; tuttugu hundrud húsa þar, heita mundu glódirnar.

28. Allt í funa einum brann; ógurlega hdan, hvør mun muna heims í rann, húsa bruna þvílíkan?

29. Nei, nei, elda ógnin var, eingin húsa brenna; glódir heldur helvitskar, hvølid svelgdu veraldar.

30. Túngum hreyktu í gini grá, glóda skrimslin raudu; skýum feyktu af hveli há, himininn sleiktu nakinn þá.

31. Vid óyndis elda þar, urdu furdu leid-

ar, sénar myndir sérlegar, og svartar kindir Náströndar.

32. Þegar endist elda glóð, eirdar firdir myrda; kessur breidar qveikja hljóð, konur deydast, menn og jóð.

33. Herinn ljéti hédan þá, hýdir ad stadnum Róma; Tíber-fljóti tjalda hjá, Tyrkja nótar vœrdir fá.

34. Sikling Róma sér nú, hvar, svœdi klœdir herinn; Leó, stjóma vanur, var, vísir fróma nœrri þar.

35. Spurdi ráda merkis mann, mildíng snildum vafinn; einnig tjádi um þad sann, ad ecki spádi gódu hann.

36. Af því skjøldinn Ansiles, ádur af hœdum senda, geymdi' í høldum Gérdur fés; gramur køldum anda blés.

37. Þannig tér: mér greidast gjøld, gleymsku og heimsku minnar; sá, sem ber hinn sœla skjøld, sigra gérir flesta øld.

38. Leó segir: látum hljótt, lid ad strídi búum; valla meyin nú í nótt, nadda heyir vedur ljótt.

39. Nádir fá svo viljum vér, vín og fína kosti; vopna þrá nœr vaxa fer, vid skulum sjá, hvur skjøldinn ber.

40. Svørtum vang um sólar hyl, sveipar

sneypin Gríma; álfar spanga um það bil, allir ganga náða til.

41. Leó grípur sverð með sér, fundið vanda kunni; yfir Tíber=fljótið fer, fellin klípur strauma hér.

42. Allir sofa sætt í ró; sér það verinn klæða; um tjalda kofa trausta þó, túnglið ofur=ljósum sló.

43. Maðurinn biður, mælti hljótt: „Máni „skínanlegur, lýstu miður nú í nótt! í náðum „liðið hvíli rótt!

44. „Aungvan Día eg áður bað; æ því „ljá mér fylgi!" túnglið nýa þá við það, þokast skýi svörtu að.

45. Þegar skýi svörtu að, sér, svínglað túnglið hefur, hita dýa harður Grér, í Hersilíu tjaldið fer.

46. Myrkur niða er nú á; eigi sjá má skjöldinn, Týrinn iða týru þá, túnglið biður skin að ljá.

47. Eins og höldur bæn fram bar, brúnir sýnir máni; ljósa-öldur alhvítar, ofan á skjöldinn steyptust þar.

48. Tekur þennann; skýta fer, ferðum skérðir sverða, vöku=menn, sem vaka hér, vigra spennir sjá hvar fer.

49. Prjátíu sækja höldar hann, hvötum

beita skjóma; høggin stæk þeim velja vant, vopna frækinn hreystimann.

50. Slær að undrum meður málm, mæri Þundur glóa; slær í sundur hausa og hjálm, hlær í mundum blóðug skálm.

51. Eirir þrekinn aungvu senn, æða blæðir flæði; geiri frekur fellir menn, en fleiri vekur hljómur enn.

52. Flockur manna mikill þá, móti nýtum kémur; skotta hann á hæli má, en heila ranna klýfur blá.

53. Undan flackar, en þó má, einast steinum valda; Týrinn stacka traustur þá, Tíberbackann kémur á.

54. Þar um hríð hann hefur bið, hvatar lítið ferðum; hrotta sníður harður lið, honum býður flestum við.

55. Fjúka hráir hausar þá, herðum frá í skyndi; þjóð hann sáir svæði á, svelgir láin margan ná.

56. Leiðist sunnu lóna við, leingur meingi fella, grípa kunni að sæmda sið, sverð í munn og skjøld á hlið.

57. Hrífur fjóra í hendur sér, hølda, er vitdu þreyngja; líkt og stjóra úthent er, ofan í fór hann bláan ver.

58. Fljótið yfir náði ná, nýtur brjótur

hlífa; hvört sem lifa hinir fá, úr heiminum skrifa vil eg þá.

59. Heim með skjöldinn halda vann; í hvílu sjóla vekur; Sikling höldur seldi þann, og segir fjöld um bardagann.

60. Köngur ríkur ræða fer: ramur að ham og skapi, eingann líka áttú þér, er athöfn slíka vogi sér.

61. Ljós um haga leika fer, lúður hljóðin vekja; glansa lagar hlyni hér, Hildardagur runninn er.



## Nítjánda Ríma.

Viðið Aar yfir þar, ærið fráir stryka, hlífa gráir herflockar; hjalta ljáir blika.

2. Grundir þekur leiða lið; ljómar skékinn falur, undir tekur æðið við, álfa frekur salur.

3. Hilmir ríður höllu frá, hans og fríða sveitin; búnir stríða brýna þá, benjagríði og skeytin.

4. Beggja mikið mætist lið, með atvikum settu, þar sem qvika vatnið við, völlur blikar sléttur.

5. Fylkíng setja föríngjar, fæstir letja Hildi; hrotta hvetja hetjurnar, hrósað géta skildi.

6. Framm þar ríður fylkíngin, fleins í hríða gjálfur; er við stríðið ei um sinn, ødlíng blíði sjálfur.

7. Leó ræður liði þar, í laufa æði Gilfa; allir hræðast hvar sem var, hans blóðskæða kylfa.

8. Alor reiður ærið vann, undan skeiða liði; øxi breiða hefur hann, hølda sneiðir friði.

9. Lúðrar tóna, og hljóðum há, Hildar sóninn gjalla; iðar frónið undir þá, øskra trjónur fjalla.

10. Yfir síðan skjóma skúr, skellir; hlíðir braka; blóðið hýða æðum úr, ufla gríðir taka.

11. Harðir sprúngu hettir þar; hrofnar slúngin gérðin; holund stúngu hárbeittar, hremsur og þúngu sverðin.

12. Andláts holu undum frá, óðum skolar blóði; helju þola herinn má, hjarna molast slóðir.

13. Allur friður farinn var, fellur lið, sem stráin; kéldur iða alraudar, yfir liðinn náinn.

14. Líkur trølli lemur þjóð, Leó føllum meður; þar af øllum ótti stóð, er hann vøllinn treður.

15. Ogna viðar báknið bar, blóðs í iðu røstum, svo Hlórriði hlífa þar, hleður niður køstum.

16. Hausfaskéljar hrakid lid, hlaut ad selja skada, hefur Helja valla vid, veidi ad telja' og rada.

17. Honum líkur Alor er, á blóds díki frekur, øxi slíkar, eydir her, andláts sýki vekur.

18. Fyrir hrøckur honum þjód, hels ad bløcku sølum, hetjan frøck um herinn ód, á Hristar røckur-bølum.

19. Undin grætur: grimmur laust, granir vætir falnum; þar sem lætur lensu raust, Leó mætir halnum.

20. Kylfu reidir þessi þá, en þeigi bleydu mætti; móti breida búldu sá, bera reidur gætti.

21. Badum þrýtur ærid eird, ei þó sýta hrycki; hyrnan nýta, krøptum keyrd, úr kylfu bítur stycki.

22. Aptur reidir øxi blá, álfur leidar hánga, ledrúng greidir þúngan þá, þorna meid á vánga.

23. Leó ridar ledrúng frá, lítt má vidinn skaka; fellur nidur náinn á, nú þar bid fær taka.

24. Þegar náir hníga á hlad, Hristar Þráinn skjóma, rídur þá sem eldíng ad, ødlíng hái Róma.

25. Hjørvi vøldum veitir fés, veifar, old sem sneidir; ítran skjøldinn Ansiles, ædstur høldur reidir.

26. Kéfju brá, sá krónu bar; klædi Prá=ins nídast; eins er þá, og eldíngar, ekru slái tídast.

27. Hrøckur meingi í hrotta saung; hild=íng sleyngir náum; rón.u þeingill gégnum gaung; geiri fleingir bláum.

28. Seggir týna trausti þar, Tveggja dýna stundi; eggjar hrína helbláar, hreggja Sinars lundi.

29. Veitast snjøllum voda spjøll, vanda øllum hvata, bleyta vøllu boda føll, brynju trøllin gnata.

30. Þorri manns í flockum flýr, fleins er dans ótryggur; marar glansa mestan Týr, Míron stansa hyggur.

31. Mildíng reidir móti sverd, mjøg af reidi=þjósti; hildíng sneidir honum gérd, hol=und freydir brjósti.

32. Hér næst snjøllum høggid=skall, af hlífar trølli sjóla; hraut á vøllinn heila fjall, hittu føllin dóla.

33. Hilmir klóti hvøssu brá, (hníga sjót=ir beggja), Viktor móti vísi þá, vogar spjóti leggja.

34. Fyrir gramur skildi skaut, og skjóma glam svo vekur; hinum-lamar hjarna laut, Helja framan tekur.

35. Sverdi veldur Adríel, og ødlíng heldur bana; Númi seldi honum hel, heitum eldi Grana.

36. Bód blódugur geirs í glamm, glódir duga freyra, þjódhródugur fleingdi framm, slódi bugur dreyra.

37. Leó þrekinn vitkast vid, sem vakni dreki í bæli, báknid skékur blódstorkid, bragna rekur hæli.

38. Hildar ólgu hylin ód, heipt er bólgin lundin; eins hann sólginn er í blód, og ásadólgur bundinn.

39. Ædir, lemur, eydir, slær, ædar krem-ur, hýdir, hrædir, gremur, neydir, nær, nædi ei fremur hlýdir.

40. Sólginn lejtar Alor ad, eggja teita lestir; ólgu heita æda trad, undan leita flestir.

41. Finnur manninn ólmur uns, efni fann til nauda, vinnur hann á hólmi Punns, hitann spannar rauda.

42. Kylfan rídur laung og ljót, ad leusu strídum fleygi; øxi hýdir henni mót, hinn og qvidir eigi.

43. Kylfu festi øxi í; aflið hrestir þreyta; hvør nú sést að halda því, honum best skal veita.

44. Exi-snarar Alor frá, aflfúlari dreingur: hinn vill varast heggið þá, á hæli fara geingur.

45. Rennir nú að manni mest, Mímir brúar stjarna; Sénja sú, er gnæfit flest, gein yfir búi hjarna.

46. Hjálmur brestur, hausinn með, heiptin hvest slagið; hníga mestur manna réð, málma lestir frægi.

47. Séra síðan hernum hríð, hlynir Síðhotts klæða; berum suíða brandi lýð, bunaði viðir æða.

48. Vopnum sleyngja þúngu þá, þjóðin meyar tekur, óskar feginn friði ná, flótta veginn ekur.

49. Hersilía ekru á, eggjar því, sem gétur; biður slýa þeigi þá, þrekið drýgja betur.

50. Einginn hlýðir hrínga Gná; hættir stríði lýður, heiptin svíður brjóst og brá, blóma viðis Friður.

51. Þrútna brá og nasir ná, neyðist gráa lyndi; skélfur áar eisu Gná, eins og strá í vindi.

52. Núma flanar framan að, fleytir Grana ljóma, ráða-vana rósin qvað, röðuls Manar dróma:.

53. Þú, sem áður unni mest, eg í náða rúmi, þér nú hað skal hatur verst, heipt forsmáður Núми!

54. Grana sóla vestur ver! væntu á bóli gjalda; þú ert, sólið, (það eg sver), þjófur að stóli valda.

55. Héðan kýs eg hvata frá; að hinu fýsir gagna, með Náðísum Nislheims grá, neyð þér vísa magna.

56. Fljóðið klæðum flétti brjóst, fer með ræðu svarta: það eg ræð, að þetta ljóst, þeckja nædir hjarta!

57. Brjóst af hatri bólgið nú, brautir ratar nauða, veldur, skati verstur, þú, að verðum hvata dauða.

58. Forakaður sífellt sért, sorgir skaði harðar, þrábölvaður vak og vert, verstur maður jarðar!

59. Nislheims hregg þig hryggi þrá, hrundin megna sagði, brandi dregnum brúður þá, brjóstið gégnum lagði.

60. Dundi sári dauða blóð; detta ná'r hin slisna, hrundi nár í nauð á slóð, nettar brár því visna.

61. Döcknar skinn, sem fölnk fis, farfar minnur prýda, slocknar svinna brúna blis, blómstur af kinnum skrída.

62. Heiptar bláa Helja fer, hönd um náinn draga, fari hún þá, sem audid er! ei mun tjá ad klaga.

# Tuttugasta Ríma.

Alskínandi Idun, þú, sem epla geymir kjarna, nærdu í anda alinn nú, ockar fjöldann barna!

2. Pau eru nauda nakin, smá, nsturleg og mögur, varna dauda máské má, módur-epla lögur.

3. Pau ad sida nasta nú, naudsyn líka brýnir, því þau ida eins og þú, og Odins fuglar mínir.

4. Best mun vera fóstur fá, fæddu börnum smáu, mána hvera meidi hjá, ment sem stundar háu.

5. Fjölnis svalan ferda ólm, sem fleytir grídar vedur, stefna skal í Styckishólm, stálpud börnin medur.

6. Vid þeim taki tignar mann, Thorlacius frægur, þau svo qvaki þar vid hann, þrátt um vetra dægur.

7. Konum lyndis létti þrá, lag af nýum brøg-um, svo sem vindur sólu frá, sveiflar skýa drøgum.

8. Þeim Snilling að þægðum flest, þrátt eg bið að hagi; Íslendínga máske mest, mannorð ber hinu frægi.

9. Blóma rínar baldur því, bjóður flestra gæða, tak nú þína umsjá í, ortan lestur qvæða.

10. Grænlands hnúkum hæðstu frá, hygg eg þau að senda; þaðan fjúka þá um lá, á þínu skauti lenda.

11. Jeg mun fæðast eptir á, og Ísa vitja haga, og með qvæðum yfir lá, anda og kroppinn draga.

12. Vininn minn, og vísin rjóð, vil eg finna blíða; kem eg inn að qveða ljóð, könur svinnar hlýða.

13. Mun Ólheita ørva Sál, og hálfdauðan fjør-va, konur veita Skáldi skál, og Skati rauðu sørva.

14. Muni lúni, ligg þú hér, lyptu vængjum eigi! oflángt brúnin bjarta er, burt af Vonar degi.

15. Þó ef hjalli Ísa á, auðnu nem eg slíka, jeg skal allur yrkja þá, því Iðun kemur líka.

---

16. Þegar liðin þúnglynd var, þrotin fríin blóma, allir friðar óska þar, af æðstum kóngi Róma.

17. Sættir feginn, fridar kær, fólki gaf hinn sterki, hans svo meigi þjódir þær, þjóna undir merki.

18. Leó hefur helst med brand, hreysti sýnda dáda; mildíng gefur Marsaland, manni til forráda.

19. Hverfur lídid hinna frá, heim á söd-ul-vara, ødlíng bidur ædstur þá, alla vel ad fara.

20. Leó situr leingur hjá, lofdúng sínum mætur; regin-vitur vísir þá, valinn rydja lætur.

21. Bragnar róta búkum því, blóds af velli grádum, Tiber fljótid ofan í, elfan fleytir nádum.

22. Fyrir sætis nødru Nál, er nádi mæta vanda, kónglegt lætur búa bál, besti gætir landa.

23. Alor frá um Mistar mel, og Mír-on ná ad kénna, Viktor dáinn, Adríel, alla þá skal brenna.

24. Þessum loga glæsta glód, Gautar bjuggu kjóla: hinir voga flytjast flód, á fund vid Ægir, sjóla.

25. Þegar hrodinn valur var, vídur bædi og frekur, vollinn skodar þeingill þar, þá og ræda tekur:

26. Bæna minna messa gjørd, ad máli slíku kémur, ad aldrei ryuni um Rómajørd, raudur dreyri fremur.

27. Þér eg, Seres, helga, þá, heilög Día prýdi, vøllinn hér, og vona þá, þú varnir honum stríði.

28. Svo ad ládi lofdúng sezt, lánid styður gædi; stillir fjádi stundar mest, stjórn og gudafrædi.

29. Ansíles hinn skæra skjøld, skulu prestar geyma; þar á lesa letur vøld, lærdir njótar seima:

30. Hvur sá stadur hann er í, og hvur í mundum ber hann, ósigradur, feigda frí, og fridsæll þar med er hann.

31. Sjóli skipt í sýslur fær, sídan stadnum betur, og med giptu yfir þær, umbodsherra setur.

32. Þessir greini þeinglí frá, þad svo launa meigi, hvørjum einum mest er má, merkur rækta vegi.

33. Aptans- stundu eina þá, ædstur þundur skída, Gydju fundi girnist ná, geck í lundinn frída.

34. Greinir hari háttum frá, og Hersilíu dauda; verdur svarid þægra þá, þrjóta skýin nauda.

35. Gyðjan besta gjørði þá, góðfúslega að spjalla; þig skal mestann moldu á, mildinganna kalla.

36. Ødlíng þráir enn að sjá, upp heims glóða Friður; Gyðjan háa þagnar þá; þeingill stóð og biður.

37. Ofan úr nýtum lundi leið, létt sem grómið fanna, fata hvít, og hrein, sem heið', himins, blóma Nanna.

38. Gyðjan netta góð og vís, geck að Brandi kjóla; hvør er þetta? Anaís, umfaðmandi sjóla.

39. Hendur þandi um háls á reck, hjarta góða píka; koss ilmandi kóngur feck; qvað svo fljóðið líka:

40. Trega hrindir hugurinn, heilla myndust tíðir; fæ eg yndis ástvin minn, ørmum binda' um síðir.

41. Fagnar þeingill falda Hlíð, fagurt leingja gaman; arma tengjast brøgðin blíð, brjóstinn þreyngjast saman.

42. Frétti kæru kóngur þá, og kysti sprundið ljúfa, hvaðan væri horfin frá, hita sunda dúfa.

43. Svarar frúin þýða þá: það eg mundi' í laumi, sagðir þú mér forðum frá, føgrum lundi' og draumi.

44. Vissi eg mundir, vísir, þú, vitja í lundinn friðan; hér því undi', og hefi nú, hæli fundið síðan.

45. Minn er faðir hollur hér, hoppinn vor ei tekur; ráðin glaður gaf hann þér, sem gyðjan borið hefur.

46. Þjóðvitrastur þekkist sá, þessar stundir móður. Sóróaster sjálfur frá, sveimar lundi glaður.

47. Heilsun valda hilmi ber, hann því dável tekur; síðan aldinn seima ver, sögn ófláa vekur.

48. Þín mín veri Dóttir dýr, dögling, verðug frúa, en aldrei fer til hallar hýr, hérna verður búa.

49. Stuttan vegirnn enginn er, ami-þinn að ríða; á hvörjum degi mátt hjá mér, meyu finna blíða.

50. Ekkert skifti heilla hag, hjörtum drýgist gaman, þó þú viljir þennan dag, þið skuluð vígjast saman.

51. Lofðung sækja Leó fer, líka qvinnu rjóða; brúðkaup rækin halda hér, hetjan svinn og tróða.

52. Þeingill blundar þessa nótt, þar hjá sprundi sínu; veit eg mundi verða rótt, vænni undir dýnu.

53. Þeingils hagur þannig stár; þrúði gisti klæða, flesta daga; øll sín ár, aldrei misti gæða.

54. Kóngur, frí af naudum mí, nadda fár-ið rýrdi; fjørutíu þar og þrjú, þjóðum ár hann stýrdi.

55. Styrkt af gudum stjórn var sú, stríðs ei gisti baga, sexhundrudum sjøtíu og þrjú, sett fyrir Kristí daga.

56. Þá að stigi bana bar, bilin hóli klára, áttatíu og tveggja var, talinn sjóli ára.

57. Brá-við þá hjá þjóð og drós, þegar ei Núm i lisir, sem burt dáið lidi ljós, og lysti húmi yfir.

58. Sikling dáinn syrgir her, saknar leingi frúin. Hnígur þá úr høndum mér, harpan streingja rúin.

---

Seljast óinnbundnar á Prentpappír 42. ß. r. S.



